# Almanak

fyrir árið

# 1908

sem er hlaupár og annað ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba

**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.**

## FJÓRTÁNDA ÁR.

WINNIPEG.
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON
1907

## Á þessu ári teljast liðin vera:

| | |
|---|---|
| frá Krists fæðingu . . . . . . . . | 1908 ár |
| frá sköpun veraldar . . . . . . | 5875 ár |
| frá upphafi Íslandsbygðar . . . . | 1034 ár |
| frá siðabót Lúters . . . . . . . . | 391 ár |

---

Árið 1908 sunnudagsbókstafur: ED.
Gyllintal: 9.

---

Milli jóla og og langaföstu er 9 vikur og 4 dagar

---

## Myrkvar.

Á árinu 1908 verða 4 myrkvar, 3 á sólu og 1 á tungli:

1. Sólmyrkvi 3. jan., ekki sýnilegur hér. 2. Sólmyrkvi 28. júní, sýnilegur í N.-Ameríku. 3. sólmyrkvi 23. des., ekki sýnilegur hér. 4. tunglmyrkvi 7. des., ósýnilegur hér.

---

## Árstíðirnar.

Í Norðvesturlandinu er talið að

| | |
|---|---|
| Vorið byrji . . . . . . . . . . | 20. marz |
| Sumarið . . . . . . . . . . . . . . | 21. júní |
| Haustið . . . . . . . . . . . . . . | 23. september |
| Veturinn . . . . . . . . . . . . . | 21. desember |

---

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

---

## Um tímatalið.

Forn-Egiptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru,—og hafa Gyðingar og Grikkir ef til vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum

hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Englandli voru vaxkerta-ljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir—sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyrr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

---

### Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn *fyrsta* sunnudag eftir *fyrsta* tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þessu getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessa leiðir, að ef tungl væri fullt 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyrr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fullt 18. april, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskadagur, nefnil. 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

### Pláneturnar.

VENUS er kveldstjarna til 5. júlí, morgunstjarna til ársloka.

MARZ er kveldstjarna til 23. ágúst, síðan morgunstjarna.

JÚPITER er morgunstjarna til 29. jan., þá kveldstjarna til 17. ágúst, síðan morgunstjarna til ársloka.

SATÚRNUS er kveldstjarna til 20. marz, morgunstjarna til 30. sept., kveldstjarna til ársloka.

## Páskadagur

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1909 ...... | 11. April | 1915 ...... | 4. Apríl |
| 1910 ...... | 27. Marz | 1916 ...... | 23. Apríl |
| 1911 ...... | 16. Apríl | 1917 ...... | 8. Apríl |
| 1912 ...... | 7. Apríl | 1918 ...... | 31. Marz |
| 1913 ...... | 23. Marz | 1919 ...... | 20. Apríl |
| 1914 ...... | 12. Apríl | 1920 ...... | 4. Aþríl |

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreyfingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess,er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínunni. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði "meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hima ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu — á jafndægrum haust og vor — að "meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

## Til minnis um Íslands.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.
Fyrstu lög og alþing sett 930.
Fyrstur trúboði, Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.
Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna.) 1262—63.
Svarti dauði geisaði 1402.
Seinni plágan 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólssað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur lúkerskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálksyni, 1540.
Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).
Prensmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reyjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðan á Hólum flutt að Leirárgjörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sétt í Leirákirkju, 1800.
Landið gjört að biskupsdæmi 1801.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fiuttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796 — 1808.)
Prentsmiðjan flutt frá Leirárg. til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavikur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavik 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reyjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

---

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðirnar byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Gullið fundið í Ástralíu | 1851 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

---

## Veðurspár fyrir árið 1908.

JANÚAR. Mjög kalt í byrjun mánaðarins. Kringum þann 3. má búast við snjókomu og hvassviðri, sem helzt mikið tli hvorttveggja til þess 10., þá hreinviðri með kulda. Kringum þann 18. sjókoma á ný með talsverðri veðurhæð og síðan byljir og stormar alt til þess 26., þá skiftir um, hægir frostið, en þó ekki úrkomulaust.

FEBRÚAR. Fyrstu tveir dagarnir vægari. Kaldara um þann 3. og 4.—hreinviðri með kulda til þess 9,, þá bregður til snjóa með vindi til þess 24., síðan bjartviðri og frost til enda.

MARZ. Kaldi byrjun mánaðarins til þess 3. Þá vægara með úrkomu til þess 9., þá sæmilega milt veður til þess kringum 18., með nokkrum vindi og snjó. Frá 17. til 25. umhleypingar, líklega rigning og snjór, Frá 25. til loka mánaðarins einn eða tveir góðviðrisdagar, þá næst rosatíð.

APRÍL. Góðviðri til þess 8. eða 9., þá kuldi og hvassviðri með nokkurri rigningu þangað til kringum þann 16., þá skiftir um til umhleypinga til þess 23. hér um bil. Frá 24. til 29. allgott veður, hreinviðri og frost. Þann síðasta hvessir með rigningu.

MAÍ. Miklu hlýrra til þess 8. með nokkru hitaregni. Frá 8. til 15. tíðar veðurbreytingar; skúrir o. s. frv. Frá 15. til 22. kaldara með rigningu, jafnvel krapasnjó, vindasamt, en hlýnar smámsaman. Um þetta leyti skiftir um til hreinviðris.

JÚNÍ. Mikil hitarigning. Afbragðstíð fyrir jarðargróða — hlýtt og fugurt veður. Góðviðrisdagarnir verða frá 6. til 18., og helzt um miðjan mánuðinn.

JÚLÍ. Nokkuð rigningasamt í byrjuninni, til þess 5., þá birtir til og helst hreinviðrið til 13. Breytilegt með skúrum og vindi til 20. Þá bjartviðri þangað til kringum þann 28., úr því rigning og bjartviðri til skiftis til mánaðarloka.

ÁGÚST. Byrjar með skúrum og þurviðri á víxl, sem helzt til þess 11., eftir það fagurt veður til 18., þá skiftir um, þykt loft með rigningu öðru hvoru til 26. og bjart veður í lok mánaðarins.

SEPTEMBER. Fagurt veður til 3., þá skiftir um; rigningasamt til 8. Milli 8. og 11. má búast við frosti, þá björtu blíðviðri til 17., því næst tíðum breytingum með vindum og nokkru frosti til 29. Rigning þann 30.

**OKTÓBER.** Frá 2. til 9, fagurt veður, hreinviðri og frost. Frá 9. til 16. breytilegt veður með nokkru regni og snjó. Frá 16. til 25. gott veður. Seinast í mánuðinum blotar, kuldarigning eða snjór með vindi.

**NÓVEMBER.** Kalt hreinviðri með frostum til 7., þá snjór og stormar; kaldara eftir þann 13.; umhleypingar til þess 20., þá nokkrir góðviðrisdagar til 23.; umhleypingar og rosi í mánaðarlokin.

**DESEMBER.** Snjókomur í byrjun mánaðarins til 7.; þá tíðar veðurbreytingar til 15.; frá 15. til 23. snjór og stormar; frá 23. fagurt veður bjart og kalt. Jólavikan verður fagurt veður. (Þýtt).

---

**Stærð úthafanna.**

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmál |
| Suður-Íshafið | " | 30,592,000 | " | " | " |
| Indlandshafið | " | 17,084.000 | " | " | " |
| Atlantshafið | " | 24,536,000 | " | " | " |
| Kyrrahafið | " | 50,309,000 | " | " | " |

---

**Lengstur dagur.**

| | kl.t. | mín. |
|---|---|---|
| Reykjavík | 20 | 56 |
| Pétursborg | 18 | 38 |
| Stokkhólmi | 18 | 35 |
| Edinburg | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 | 20 |
| Berlín | 16 | 40 |
| London | 16 | 34 |
| París | 16 | 05 |
| Victoría, B. C. | 16 | 00 |
| Vínarborg | 15 | 56 |
| Boston | 15 | 14 |
| Chicago | 15 | 08 |
| Miklagarði | 15 | 04 |
| Cape Town | 14 | 20 |
| Calcutta | 13 | 24 |

**Þegar klukkan er 12**
**á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í**

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e. h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 3.37 | " |
| Edinburgh | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indl. | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.54 | f. h. |
| Melbourne, Ástral. | 2,48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád. |

---

Tíminn er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

---

## JANÚAR hefir 31 dag 1908

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | MÖRSUGUR |
| | | **Umskurn Krists**, Lúk. 2. | |
| M | 1 | Nýársdagur | |
| F | 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1865 | |
| F | 3 | ● Nýtt t. (jólatungl) 3.14 f. m. | |
| L | 4 | Konráð Gíslason d. 1891 | 11. v. vetrar |
| | | **Barnamorðið í Betlehem**, Matt. 2. | |
| S | 5 | S. e. nýár | su. 8.27, sl. 4.40 |
| M | 6 | Þrettándi (Epiphania) | |
| Þ | 7 | Knútsdagur. Eldbjargarmessa | |
| M | 8 | Bardaginn við New Orleans 1815 | |
| F | 9 | Napoleon 3. d. 1876 | |
| F | 10 | ☾ Fyrsta kv. 7.24 f. m. | |
| L | 11 | Brettúvumessa | 12. v. vetrar |
| | | **Þegar Jesús var tólf ára**, Lúk. 2. | |
| S | 12 | 1. s. e. þrett. | su. 8.24, sl. 4.48 |
| M | 13 | Geisladagur | |
| Þ | 14 | | |
| M | 15 | Sandvíkureyjarnar fundnar 1778 | |
| F | 16 | British Museum opnað 1759 | |
| F | 17 | Benjamín Franklin f. 1706 | |
| L | 18 | ☺ Fult t. 7.08 f. m. | 13. v. vetrar |
| | | **Brúðkaupið í Kana**, Jóh. 2. | |
| S | 19 | 2. s. e. þrett. | su. 8.19, sl. 4.59 |
| M | 20 | Bræðramessa | |
| Þ | 21 | Agnesarmessa | |
| M | 22 | Vincentinusmessa. Victoria drottning d. 1901 | |
| F | 23 | Gustav Doré, málarinn mikli, d. 1882. | |
| | | | ÞORRI |
| F | 24 | Friðrik mikli f. 1712 | Miður vetur |
| L | 25 | Kirkjufél. Ísl. í V.h. stofn. 1885 | 14. v. v. |
| | | **Jesús gekk ofan af fjallinu**, Matt. 8. | |
| S | 26 | 3. s. e. þrett. ☽ S.kv. 8.32 f.m. | su. 8.12, sl. 5.10 |
| M | 27 | | |
| Þ | 28 | Holberg, danska skáldið, d. 1754 | |
| M | 29 | McKinley, forseti, f. 1843 | |
| F | 30 | Bóthildardagur | |
| F | 31 | Dr. Guðbrandur Vigfússon d. 1889 | |

# FEBRÚAR hefir 29 daga 1908

ÞORRI

L 1 | Brigildarmessa — 15. v. vetrar

**Jesús gekk á skip,** Matt. 8.

S 2 | 4. s. e. þrett. Kindilmessa. 🌑 N. t. 2.07 f.m.
M 3 | Blasíusmessa [su. 8.03, sl. 5.22
Þ 4 |
M 5 |
F 6 | Sir Henry Irving f. 1838
F 7 | Charles Dickens f. 1812
L 8 | ☾ Fyrsta kv. 9.55 e. m. — 16. v. vetrar

**Illgresi meðal hveitisins,** Matt. 13.

S 9 | 5. s. e. þrett. Baldvin Einarsson d. 1833.
M 10 | [su. 7.52, sl. 5.34
Þ 11 | Thomas Edison f. 1847
M 12 | Lincoln f. 1809
F 13 | Richard Wagner, tónfræðingur, d. 1883
F 14 | Lúters síðasta prédikan 1546
L 15 | — 17. v. vetrar

**Verkamenn í víngarði,** Matt. 20.

S 16 | Níuviknafasta. su. 7.40, sl. 5.46
M 17 | 🌕 F. tungl 2.36 f. m. Michael Angeló d. 1563
Þ 18 | Marteinn Lúter d. 1546
M 19 |
F 20 |
F 21 |
L 22 | Þorraþræll. Pétursmessa. — 18. v. vetrar

**Fernskonar sáðjörð,** Lúk. 8.

GÓA

S 23 | 2. s. í níuv. föstu su. 7.26, sl. 5.58
M 24 | Hlaupársdagur. ☽ S. kv. 8.55 f. m.
Þ 25 | Matthíasmessa
M 26 |
F 27 | Longfellow f. 1807
F 28 |
L 29 | — 19. v. vetrar

# MARZ hefir 31 dag 1908

**Skírn Krists,** Matt. 3. GÓA

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | Langafasta (sjöv.fasta) | su. 7.14, sl. 6.08 |
| M | 2 | N. tangl 0.28 f.m. (Góutungl) | |
| Þ | 3 | Sprengikveld. Jónsmessa (h. f.) | |
| M | 4 | Öskudagur | |
| F | 5 | | |
| F | 6 | Sveinbj. Egilsson f. 1791 | |
| L | 7 | | 20. v. vetrar |

**Djöfullinn freistar Jesú,** Matt. 4.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 1. s. í föstu | su. 7.00, sl. 6.19 |
| M | 9 | F. kv. 3.13 f. m. 40 riddarar | |
| Þ | 10 | Edward konungur VII. giftist 1863 | |
| M | 11 | Imbrudagar. Sæluvika | |
| F | 12 | Gregoríusmessa. Síra Páll Þorláksson d. 1882 | |
| F | 13 | Dr. Guðbrandur Vigfússon f. 1827 | |
| L | 14 | Sigurður Breiðfjörð f. 1778 | 21. v. vetrar |

**Kanverska konan,** Matt. 15.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 2. s. í föstu | su. 6.45, sl. 6.31 |
| M | 16 | Gvöndardagur (Guðmundur hinn góði Hólab.) | |
| Þ | 17 | Fult t. 7.59 e.m. Björn Gunnlaugss. d. 1876 | |
| M | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 | |
| F | 19 | Davíð Livingstone f. 1813 | |
| F | 20 | Jafndægur. Vor byrjar | |
| L | 21 | Benediktsmessa | 22. v. vetrar |

**Jesús rak út djöful,** Lúk. 11.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 3. s. í föstu. Göethe d. 1832. | su. 6.29, sl. 6.42 |
| M | 23 | Góuþræll | |
| | | | EINMÁNUÐUR |
| Þ | 24 | Einmánaðarsamkoma. Heitdagur | |
| M | 25 | Síð. kv. 6.03 f. m. Boðunardagur Maríu. | |
| F | 26 | Beethoven, tónfr. d. 1872 | |
| F | 27 | | |
| L | 28 | | 23. v. vetrar |

**Jesús mettar 5000 manns,** Jóh. 6.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | Miðfasta. Swedenborg d. 1772 | su. 6.13, sl. 6.54 |
| M | 30 | | |
| Þ | 30 | N. tungl 10.33 e.m. (Páskatungl) | |

APRÍL hefir 30 daga 1908

EINMANUDUR

M 1 Bismarck f. 1815
F 2 Emil Zola f. 1840
F 3 Washington Irving f. 1783
L 4 Oliver Goldsmith d. 1774 24. v. vetrar

**Gabríel engill sendur,** Lúk. 1.

S 5 5. s. í föstu su. 5.59, sl. 7.04
M 6 Canada fundin 1497
Þ 7
M 8 ☾ F. kv. 10.02 f. m.
F 9
F 10 General Booth f. 1829
L 11 Leónisdagur 25. v. vetrar

**Krists innreið í Jerúsalem,** Matt. 21.

S 12 Pálmasunnudagur (Dimbilvika) su. 5.44, sl. 7.15
M 13 Thomas Jefferson f. 1743
Þ 14 Abraham Lincoln skotinn 1863
M 15 Shakespeare f. 1564
F 16 Skírdagur ☺ Fult t. 10. 26 f.m. Magnúsmessa
F 17 Föstud. langi. Benjamín Franklín d. 1790
L 18 Sumarmál (af 26. v. vetrar)

**Krists upprisa,** Mark. 16.

S 19 Páskadagur (páskavika) su. 5.30, sl. 7.26
M 20 Annar í páskum
Þ 21 Jón Hjaltalín, landlæknir, f. 1807
M 22

HARPA

F 23 Sumard. fyrsti. ☽ S. kv. 0.34 f.m. 1. v. sumars
F 24 Daniel Defoe d. 1731
L 25 Gangdagurinn eini (mikli)

**Jesús kom að luktum dyrum,** Jóh. 20.

S 26 1. s. e. páska su. 5.16, sl. 7.36
M 27 Grant, hershöfðinginn, f. 1822
Þ 28
M 29 Krím-stríðið hætti 1856
F 30 ● Nýtt t. 9.04 f. m. (sumartungl) 2. v. s.

# MAÍ hefir 31 dag 1908

HARPA

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Tveggja postula messa. Dav. Livingstone d. 1873 |
| L | 2 | Dewey eyði'agði spanska flotann við Manilla 1898 |
| | | **Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.** |
| S | 3 | 2. s. e. páska su. 5.03, sl. 7.48 |
| M | 4 | |
| Þ | 5 | Napóleon Bónaparte d. 1821 |
| M | 6 | |
| F | 7 | 3. v. sumars |
| F | 8 | ☾ F. kv. 4.54 f. m. John Stewart Mill d. 1873 |
| L | 9 | Schiller d. 1805 |
| | | **Burtför Krists til föðursins, Jóh. 16.** |
| S | 10 | 3. s. e. páska. Eldaskildagi su. 4.52, sl. 7.58 |
| M | 11 | |
| Þ | 12 | |
| M | 13 | Stofnuð fyrsta ensk nýlenda í Ameríku 1601 |
| F | 14 | 4. v. sumars |
| F | 15 | ☺ Fult t. 10.03 e.m. Hallvarðsm. Pétur biskup |
| L | 16 | [Pétursson d. 1891 |
| | | **Sending heilags anda. Jóh. 16.** |
| S | 17 | 4. s. e. páska. Tómas Sæmundsson d. 1841 |
| M | 18 | [su. 4.41, sl. 8.08 |
| Þ | 19 | Gladstone d. 1898 |
| M | 20 | Columbus d. 1506 |
| F | 21 | 5. v. sumars |
| F | 22 | ☽ Síð. kv. 5.48 f. m. Sæmuhdur fróði d. 1133 |
| | | SRERPLA |
| L | 23 | |
| | | **Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.** |
| S | 24 | 5. s. e. páska. Gangdagavika su. 4.33, sl. 8.17 |
| M | 25 | Úrbanusmessa |
| Þ | 26 | Jónas Hallgrímsson d. 1845 |
| M | 27 | Calvin d. 1564 |
| F | 28 | Uppstigningardagur 6. v. sumars |
| F | 29 | ● N. tungl 8.45 e.m. Gísli Brynjólfsson d. 1888 |
| L | 30 | Eggert Ólafsson d. 1768 |
| | | **Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.** |
| S | 31 | 6. s. e. páska su. 4.26, sl. 8.25 |

Líttu ekki

# gigtina kvelja þig einn einasta dag lengnr.

Hví skyldirðu lifa við kvalir og angist dag eftir dag og viku eftir viku og gera sjálfan þig að aumingja. Byrjaðu í dag að taka.



MAN WITH SYMPTOMS

# 7 Monks' Rheumatic Cure.

Lyf þetta læknar eftirfylgjandi sjúkdóma:

Gigt, mjaðmagigt, köldu, lendaverk nuggigt, stöðuga gigt, vöðvagigt, of kælıngar-gigt, liðabólgu, þvagteppu, fótkrampa í gömlu fólki g fl.

## Það sem sagt er um lyf þetta:

Þegar vér sýndum „7 Monk' meðölin á Winnipeg-sýningunni í júlí 1905 kom tíginborin, öldruð frú til okkar, og mælti til þeirra er voru að skoða sýningar vora.

Hvert orð er um „7 Monks' Rheumatic Cure" er sagt, er dagsatt fyrir einu ári brúkaði eg þetta lyf og það gerði mig albata. Eg leið voða-kvalir í bakinu, er algerlega hurfu. Maðurinn minn þjáðist líka af gigt, en hann varð líka alheill við sömu lyf. og við erum bæði hjartanlega þakklát og mælum hið bezta með því við þá, er gigt þjáir

Kona þessi heitir Mrs. Cudmore, og hefir notið almennrar virðingar og hylli í Winnipeg í 20 ár.

### Var ráðalaus.

Francis, Sask. 15. júní 1905

Herrar.

Eg hefi brúkað „7 Monks' Rheumatic Cure". og það er hið eina lyf, er hefir gert mig albata.

Yðar einleg

**Mrs. C. Molde**

### Gott lyf

Minnedosa 18. sept.—'05

Kæru herra.

Eg hefi brúkað „7 Monks' Rheumatis Cure" og er er albata.

Yðar einlæg

Maude B. Rechey

### Gigt læknuð í Keyes.

Keyes, 16. Feur.—'05

Kæru herrar.

Eg brúkaði „7 Monks' Rheumatic Cure" og hefi aldrei reynt slíkt lyf.

Yðar einlægur

B. Riley

Verð $1.00. 6 á $5.00.

## 7 Monks' Company. Aðaleigendur.

WINNIPEG, CANADÁ,

| JÚNÍ | | hefir 30 daga | 1908 |
|---|---|---|---|
| | | | SKERPLA |
| M | 1 | Garibaldi d. 1882 | |
| Þ | 2 | | |
| M | 3 | | |
| F | 4 | | 7. v. sumars |
| F | 5 | | |
| L | 6 | ☾ F. kv. 10.27 e.m. Alexander mikli d. 356 f. K. | |
| | | **Sá, sem elskar mig,** Jóh. 14 | |
| S | 7 | Hvítasunnudagur Helgavika su. 4.22, sl. 8.32 | |
| M | 8 | Jón landlæknir Hjaltalín d. 1882 | |
| Þ | 9 | Charles Dickens d. 1870 | |
| M | 10 | Imbrudagar. Sæluvika | |
| F | 11 | | 8. v. sumars |
| F | 12 | W. C. Bryant d. 1878 | |
| L | 13 | Jón landlæknir Sveinsson d. 1803 | |
| | | **Kristur og Nikódemus,** Jóh. 3. | |
| S | 14 | Trínitatis. Fult t. 7.26 f.m. su. 4.19, sl. 8.37 | |
| M | 15 | | |
| Þ | 16 | | |
| M | 17 | Jón Sigurðsson f. 1811 | |
| F | 18 | Dýridagur | 9. v. sumars |
| F | 19 | | |
| L | 20 | ☽ S. kv. 10.57 e.m. | |
| | | **Hinn auðugi maður,** Lúk. 16. | |
| S | 21 | 1. s. e. trín. Sólstöður, lengstur dag. su. 4.20, sl. 8.40 | |
| | | | SÓLMÁNUÐUR |
| M | 22 | | |
| Þ | 23 | | |
| M | 24 | Jónsmessa. Kristni lögtekin á Íslandi árið 1000 | |
| F | 25 | Ágsborgartrúarjátningin 1530 | 10. v. sumars |
| F | 26 | | |
| L | 27 | | |
| | | **Hin mikla kvöldmáltíð,** Lúk. 14. | |
| S | 28 | 2. s. e. trín. N. t. 10.02 f.m. su. 4.22, sl. 8.41 | |
| M | 29 | Pétursmessa og Páls | |
| Þ | 30 | | |

# JÚLÍ hefir 31 dag 1908

SÓLMANUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Dominion dagur | |
| F | 2 | Þingmaríumessa. Sviðhúnsm. h.f. | 11. v. sum. |
| F | 3 | Quebec-borg grundvölluð 1605 | |
| L | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776) | |

**Hinn týndi sauður,** Lúk. 15.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 5 | 3. s. e. trín. | su. 4.26, sl. 8.39 |
| M | 6 | ☾ Fyrsta kv. 1.56 f. m. | |
| Þ | 7 | Jóhann Huss brendur | |
| M | 8 | Seljumannamessa | |
| F | 9 | | 12. v. sumars |
| F | 10 | John Calvin f. 1509 | |
| L | 11 | | |

**Verið miskunnsamir,** Lúk. 6.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 12 | 4. s. e. trín. | su. 4.32, sl. 8.35 |
| M | 13 | Margrétarmessa. ☺ Fult t. 3.19 f. m. | |
| Þ | 14 | Franska stjórnarbyltingin 1789 | |
| M | 15 | Sviðhúnsmessa h.s. Krossfarendur tóku Jerúsa- | |
| F | 16 | [lem 1099 | 13. v. sumars |
| F | 17 | | |
| L | 18 | | |

**Jesús kennir af skipi,** Lúk. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 19 | 5. s. e. trín. | su. 4.40, sl. 8.39 |
| M | 20 | Þorláksmessa. ☽ S.kv. 5.33 f.m. | Guðbrandur |
| Þ | 21 | Robert Burns d. 1796 | [biskup d. 1627 |
| M | 22 | Aukanætur | |
| F | 23 | Hundadagar byrja | 14. v. sumars |
| F | 24 | | |
| L | 25 | Jakobsmessa | |

**Réttlæti Faríseanna,** Matt. 5.

HEYANNIR

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 26 | 6. s. e. trín. su. 4.49, sl. 8.21 | Miðsumar |
| M | 27 | Atlantshafsritsíminn fullagður 1868 | |
| Þ | 28 | ● Nýtt t. 0.48 f. m. | |
| M | 29 | Olafsmessa h. f. | |
| F | 30 | William Penn d. 1718 | 15. v. sumars |
| F | 31 | Jon Ericson, sænski f. 1802 | |

# ÁGÚST hefir 31 dag 1908

HEYANNIR

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 1 | Bandadagur. Jón Lspólín d. 1836 | |
| | | **Jesús mettar 4000 manns, Mark. 8.** | |
| S | 2 | 7. s. e. trín. | su. 4.58, sl. 8.11 |
| M | 3 | Ólafsmessa h.s | |
| Þ | 4 | ☾ Fyrsta kv. 3.11 f. m. | H.C.Andersen d. 1875 |
| M | 5 | Brynjólfur biskup Sveinsson d. 1675 | |
| F | 6 | | 16. v. sumars |
| F | 7 | | |
| L | 8 | Canning d. 1827 | |
| | | **Um falsspámenn, Matt. 7.** | |
| S | 9 | 8. s.e.trín. Kapt. Marryat d. 1818 | su.5.08,sl.7.50 |
| M | 10 | Lafranzmessa | |
| Þ | 11 | ☺ F. tungl 10.30 e. m. | |
| M | 12 | | |
| F | 13 | Manilla-borg gafst upp 1898 | 17. v. sumars |
| F | 14 | Napóleon 1. f. 1769 | |
| L | 15 | Maríumessa h.f. Walter Scott f. 1771 | |
| | | **Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.** | |
| S | 16 | 9. s. e. trín. | su. 5.19, sl. 7.45 |
| M | 17 | Sveinbj. Egilsson d. 1852 | |
| Þ | 18 | ☽ S. kv. 2.56 f. m. | |
| M | 19 | Gestur Pálsson d. 1892 | |
| F | 20 | | 18. v. sumars |
| F | 21 | | |
| L | 22 | | |
| | | **Jesús grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.** | |
| S | 23 | 10. s. e.trín. Hundadagar enda. | su.5.29,sl.7.33 |
| M | 24 | Barthólómeusmessa. Bjarni Thorarensen d. 1841 | |
| | | | TVÍMÁNUÐUR |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | ● N. tungl 4.30 f.m. | |
| F | 27 | | 19. v. sumars |
| F | 28 | Ágústín d. 430 | |
| L | 29 | Höfuðdagur. Jóhannes skírari líflátinn | |
| | | **Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk.** | |
| S | 30 | 11. s. e.trín. Jón bisk. Vídalín d. 1720 | su. 5.30 |
| M | 31 | John Bunyan d. 1688 | [sl. 7.19 |

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1908

TVÍMÁNUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | | |
| M | 2 | | |
| F | 3 | ☾ Fyrsta kv. 2.22 f. m. | 20. v. sumars |
| F | 4 | Franska lýðveldið stofnað 1870 | |
| L | 5 | | |

**Daufi og málhalti maðurinn,** Mark. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 12. s. e. trín. | su. 5.49, sl. 7.04 |
| M | 7 | Verkamannadagurinn | |
| Þ | 8 | Maríumessa h. s. | |
| M | 9 | | |
| F | 10 | ☺ Fult t. 5.54 f. m. | 21. v. sumars |
| F | 11 | | |
| L | 12 | Bardaginn við Quebec 1759 | |

**Hinn miskunnsami Samverji,** Lúk. 10.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 13. s. e. trín. | su. 6.00, sl. 6,49 |
| M | 14 | | |
| Þ | 15 | | |
| M | 16 | Imbrudagar. Sæluvika. | |
| F | 17 | ☽ S.kv. 4.04 f.m. | 22. v. sumars |
| F | 18 | Garfield d. 1881 | |
| L | 19 | | |

**Tíu líkþráir,** Lúk. 17.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 14. s. e. trín. | su. 6.10, sl. 6.34 |
| M | 21 | Walter Scott d. 1832 | |
| Þ | 22 | Tyrkjasoldán f. 1842 | |
| M | 23 | Jafndægur; haust byrjar. | Sn. Sturluson d. 1241 |
| | | | HAUSTMÁNUÐUR |
| F | 24 | | 23. v. sumars |
| F | 25 | ● Nýtt t. 8.30 f. m. | Björn Gunnlaugss. f. 1788 |
| L | 26 | | |

**Enginn kann tveimur herrum að þjóna,** Matt. 6.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 15. s. e. trín. | su.6.21,sl.6.18 |
| M | 28 | | |
| Þ | 29 | Mikaelsmessa | |
| M | 30 | | |

# OKTÓBER hefir 31 dag 1908

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HAUSTMÁNUÐUR |
| F | 1 | | 24. v. sumars |
| F | 2 | ● N. t. 11,45 f.m. | |
| L | 3 | Pétur biskup Pétursson f. 1787 | |

**Sonur ekkjunnar af Nain**, Lúk. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | 16. s. e. trín. | su. 6.30, sl. 6.02 |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | Eldadagar. Tennyson d. 1892 | |
| M | 7 | Edgar Poe d. 1849 | |
| F | 8 | | 25. v. sumars |
| F | 9 | ○ F. tungl 2.34 f. m. | |
| L | 10 | | |

**Vatnssjúki maðurinn**, Lúk. 14.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | 17. s. e. trín. | su.6.43,sl.5.48 |
| M | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | |
| Þ | 13 | | |
| M | 14 | Kalixtusmessa | |
| F | 15 | Gregoríska tímatalið innleitt 1582 | 26. v. sumars |
| F | 16 | ☾ S. kv. 9.06 f. m. | |
| L | 17 | | |

**Hvers son er Kristur?** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | 18. s. e. trín. Lúkasmessa | su. 6.54; sl.5.34 |
| M | 19 | Jónatan Swift d. 1745 | |
| Þ | 20 | Síra Jón Þorláksson d. 1819 | |
| M | 21 | Nelson d. 1805 | |
| F | 22 | Jón Espólín f. 1769 | Veturnætur (af 27. v. s.) |
| F | 23 | William Penn steig á land i Ameríku 1681 | |
| | | | GORMÁNUÐUR |
| L | 24 | Vetrardagurinn fyrsti | 1. v. vetrar |

**Limafallssjúki maðurinn**, Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | 19. s. e.trín. ● N. t. 0.18 f.m. | su.7.05,sl.5.29 |
| M | 26 | | |
| Þ | 27 | Síra Hallgrímur Pétursson d. 1674 | |
| M | 28 | Harward háskólinn stofnsettur 1636 | |
| F | 29 | | |
| F | 30 | Gambetta f. 1832 | |
| L | 31 | Reformazíón Lúters 1517 | 2. v. vetrar |

# NÓVEMBER hefir 30 daga 1908

GORMANUDUR

**Jesús predikar um sælu,** Matt. 5.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 20. s. e. trín. ☾ F. kv. 7.47 f. m. Allra heil.m. |
| M | 2 | Jenny Lind d. 1887 [su. 7.17, sl. 5.07 |
| Þ | 3 | |
| M | 4 | |
| F | 5 | |
| F | 6 | |
| L | 7 | Jón Arason líflátinn 1550 3. v. vetrar |

**Konungsmaðurinn,** Jóh. 4.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 21. s. e. trín. ☺ F t. 1.29 f.m. su. 7.29, sl. 4.56 |
| M | 9 | Skúli Magnússon d. 1794 Edward konungur f. |
| Þ | 10 | Lúter f. 1483 |
| M | 11 | Marteinsmessa |
| F | 12 | |
| F | 13 | |
| L | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 4. v. vetrar |

**Hinn skuldugi þjónn,** Matt. 18.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 22. s. e. trín. ☽ Síð. kv. 5.12 f.m. su. 7.40, sl. 4.46 |
| M | 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 |
| Þ | 17 | Snez-skurðurinn opnaður 1869 |
| M | 18 | |
| F | 19 | |
| F | 20 | Sir Wilfrid Laurier f. 1841 |
| L | 21 | 5. v. vetrar |

**Skattpeningurinn,** Matt. 22.

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 23. s. e. trín. su. 7.51, sl. 4.37 |
| | | ÝLIR |
| M | 23 | ● N. tungl 3.24 f.m. |
| Þ | 24 | |
| M | 25 | Katrínarmessa |
| F | 26 | |
| F | 27 | Grímur Thomsen d. 1896 |
| L | 28 | Washington Irving d. 1850 6. v. vetrar |

**Innreið Krists í Jerúsalem,** Matt. 21.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 1. s. í jólaföstu. Adventa su. 8.02, sl. 4.31 |
| M | 30 | ☾ Fyrsta kv. 3.15 f.m. |

## DESEMBER hefir 31 dag 1908

| | | | Ýlir |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | | |
| M | 2 | Bardaginn við Austerlitz 1805 | |
| F | 3 | | |
| F | 4 | | |
| L | 5 | Mozart d. 1791 | 7. v. vetrar |

**Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.**

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 2. s. í jólaföstu | su. 8.12, sl. 4.27 |
| M | 7 | ○ Fult t. 3.15 f.m. Jón Sigurðsson d. 1879 | |
| Þ | 8 | Maríumessa | |
| M | 9 | Milton f. 1608 | |
| F | 10 | Alexander Dumas sr. d. 1870 | |
| F | 11 | | |
| L | 12 | Skúli Magnússon f. 1711 | 8. v. vetrar |

**Jóhannes í böndum, Matt. 11.**

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 14 | 3. s. í jólaföstu | su. 8.19, sl. 4.26 |
| M | 14 | George Washington d. 1799 | |
| Þ | 15 | ☾ S.kv. 2.43 f.m. | |
| M | 16 | Imbrudagar. Sæluvika | |
| F | 17 | | |
| F | 18 | | |
| L | 19 | | 9. v. vetrar |

**Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.**

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 4. s. í jólaföstu | su. 8.24, sl. 2.27 |
| M | 21 | | |
| Þ | 22 | Sólhvörf; skemstur dagur | Mörsugur |
| M | 23 | Þorláksmessa ● N. t. 5.21 f.m. | |
| F | 24 | Aðfangadagur jóla. Nóttin helga | |
| F | 25 | Jóladagur | |
| L | 26 | Annar í jólum | 10. v. vetrar |

**Símon og Anna, Lúk. 2.**

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | S. milli jóla og nýárs | su. 8.28, sl. 4.31 |
| M | 28 | | |
| Þ | 29 | ☽ F. kv. 11.11 f. m. Gladstone f. 1809 | |
| M | 30 | Bjarni Thórarensen f. 1786 | |
| F | 31 | Gamlársdagur | |

# ALMANAK

14. ár. Winnipeg, Canada. 1908.

## Friðjón Friðriksson

—

FLESTIR menn, sem nokkura viðkynningu hafa haft af vestur-íslenzku þjóðlífi, munu kannast við Friðjón Friðriksson. Hann hefir verið höfðingi í liði þeirra síðan á fyrstu árum. Hann er einn þeirra manna, er mann ávalt rekur minni til, ef fundum á annað borð hefir borið saman. Og sú endurminning verður með hinum hugljúfustu, sem maður ber með sér. Því sé það sannnefni um nokkurn mann, er vér höfum mætt á lífsleiðinni, að hann sé hvers manns hugljúfi, verður naumast á móti því borið af nokkurum, sem honum hefir kynst, að það einkunnarorð hæfi honum flestum mönnum öðrum betur. Hann er maður svo gæfur og geðprúður, að það fer þegar að liggja vel á hverjum þeim, sem á tal við hann.

Fyrir margra hluta sakir, hefir hann verið einn allra einkennilegasti maður í hópi Vestur-Íslendinga og með þeim, sem mest hefir kveðið að bæði á mannfundum, í heimahúsum og í afskiftum af öllum félagsmálum. Hann er nú orðinn nokkuð roskinn maður, hættur kaupsýslu og

seztur í helgan stein, svo það á vel við, að ritaður sé af honum dálítill þáttur í safninu til sögu vestur-íslenzkra landnámsmanna.

Friðjón Friðriksson er fæddnr 21. ágúst, 1849 á Hóli á Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu. Faðir hans, Friðrik Jónsson frá Snartastöðum í Presthólahreppi, bjó þar þá. Forfeður þeirra feðga höfðu verið bændur í Núpasveit og Axarfirði, dugnaðar og atorkumenn, og svo vel kröftum búnir, að þau munnmæli gengu í ættinní, að á drauga og afturgöngu öldinni hefði ekki verið til nokkurs að gjöra þess konar sendingar á hendur þeim; þeir hefði tekið svo hraustlega við slíku íllþýði, er það varð á vegi fyrir þeim, að ekki voru þeir ónáðaðir oftar.

Bræður Friðjóns voru þrír, Árni, Olgeir og Friðbjörn og eru allir enn á lífi, tveir þeirra bændur í Argylebygð, en Árni fluttur með fjölskyldu sína vestur á Kyrrahafsströnd. Systur eiga þeir bræður eina, sem er gift kona í Argyle, og aðra gifta á Íslandi. Þrjú systkini þeirra dóu ung. Friðrik faðir þeirra var tvígiftur og eiga þau systkini eina hálfsystur, vestur á Kyrrahafsströnd. Friðrik Jónsson bjó einnig á Sjóarlandi og Kúðá í Þistilfirði. Eftir það flutti hann inn í Eyjafjörð. Var hann eitt ár ráðsmaður með Eggerti Gunnarsyni á Syðra-Laugalandi á Staðar-bygð, þegar kvennaskólinn var stofnaður þar og mikill búskapur rekinn um leið. Síðar var hann á Skipalóni, Kálfskinni og Akureyri. Þar mun hann hafa verið ein tvö, þrjú ár. Fyrri konu sína misti hann, er hann bjó á Kúðá.

Móðir Friðjóns hét Þórhildur og var dóttir Fríðriks Árnasonar, bónda á Núpi í Axarfirði. Var Friðrik, faðir hennar, í fóstri með Þórði sýslumanni Björnssyni í Garði í Aðal-Reykjadal. Kona hans hét Guðný Björnsdóttir.

Var hún komin af þeim Arngrími sýslumanni og Hrólfi sýslumanni sterka.

Friðjón ólst upp með þeim foreldrum sínum á Hóli og Sjóarlandi, þangað til hann var 18 vetra, Réðst hann þá til Ágústs stúdents Jónssonar, sonar-sonar síra Jóns lærða á Möðrufelli; bjó hann á Ljótsstöðum í Vopnafirði. Með honum var hann einn vetur við nám. Síðar var hann tvo vetrarkafla með síra Gunnari Gunnarsyni á Sauðanesi og fekk tilsögn í allmennum fræðum. Má geta nærri, að hann hefir haft gott af að vera á vegum þess ágætis manns og njóta tilsagnar hans. Á sumrum var hann ýmist í kaupamensku eða við verzlan í Þórshöfn og Raufarhöfn á spekúlanta-skipum. Um þetta leyti fekst hann líka nokkuð við barnakenslu, því aldrei var hann svo,að hann hefði ekki eitthvað fyrir stafni. Árin 1871-72 var hann skrifari á Eskifirði hjá Valdimar sýslumanni Olivarius og Jóni Johnsen, Ásmundssyni frá Odda, eftir að hann tók við sýslunni. Haustið 1872 fór Friðjón að Harðbak á Melrakkasléttu og var þar næsta vetur. En sumarið 1873 réðst hann til Ameríkufarar og var þá nýkvæntur.

Það var fyrsti stór-hópurinn, sem fór frá Íslandi til Ameríku og var í honum margt gervilegustu manna úr Þingeyjar og Eyjafjarðarsýslum. Þar var Ólafur Ólafsson frá Espihóli, Hallgrímur Gíslason frá Rútsstöðum, Pétur Thorlacius frá Stokkahlöðum, Þorlákur Jónsson frá Stórutjörnum í Ljósavatnsskarði, Baldvin Helgason frá Gröf á Vatnsnesi í Húnavatnssýslu, Stephan G. Stephansson, skáldið, Jakob Sigurðsson Eyfjörð frá Kristnesi, Eiríkur Bergmann frá Syðra-Laugalandi, Jón Þórðarson frá Skeri við Eyjafjörð, þau skáldin Sigurður Jóhannesson og Kristinn Stefánsson, Baldvin L. Baldvinsson, ritstjóri, og Árni Friðriksson, bróðir Friðjóns.* Með þessum hópi má

*) Ásamt ýmsum fleiri, sbr. Almanak 1900.

svo að orði kveða, að útflutningur hefjist frá Íslandi til Kanada. Þar voru þá eigi aðrir Íslendingar, svo kunnugt sé, en Sigtryggur Jónasson.

Gufuskipið, sem flutti hóp þenna til Skotlands, hét QUEEN, og hafði verið sent til Íslands til að flytja þaðan hesta og sauði. Má nærri geta, að fremur hafi verið óvistlegt fyrir fólk, ekki sízt konur og börn, innan um þann flutning. Enda kvað svo ramt að, að einn af helztu hvatamönnum til fararinnar, Páll Magnússon, á Kjarna í Eyjafirði, sem alráðinn var til flutnings af landi burt með fjölskyldu sína, þóttist til þess neyddur að hverfa frá með sig og sína; svo illa leizt honum á farrými það, sem honum var ætlað. En næsta vetur veiktist hann og dó. Var hann höfðingi mikill í sveit og hinn ágætasti maður. Starfaði hann töluvert að útflutningum síðustu ár æfi sinnar og gaf út blað, sem nefnt var Ameríka, með upplýsingum um land og landshagi fyrir vestan haf.

Þrátt fyrir lélegt farrými gekk ferðin til Skotlands slysalaust, þó aðbúð væri slæm. Eingin veikindi komu upp á leiðinni og einginn dó og má það merkilegt heita. Frá Akureyri var farið 5. ágúst 1873 og má það mikill merkisdagur heita í sögu íslenzkra útflutninga til Ameríku. Í hópnum munu hafa verið 165 manns alls. Frá Skotlandi var farið með skipi Allanlínunnur, MANITOBAN, og til Quebec var komið seint í ágúst (20.—25.). Þaðan var haldið til borgarinnar Toronto og svo nokkurn veginn viðstöðulaust norður í Muskoka-hérað. Nokkurir úr hópi þessum settust þar að og námu lönd nokkurar mílur austan við smá-bæ þann, sem Rosseau nefnist. Aðrir höfðu þar litla dvöl og var Friðjón í þeirra tölu. Þeir Ólafur Ólafsson, Jakob Eyfjörð, Jón Thórdarson, Skúli og Halldór Árnasynir, seinna bændur í Argyle, fóru með Friðjóni suður til Bandaríkja, eftir að hafa unnið við sögunar-

mylnu og vegagjörð í Parry Sound. Var ferðinni heitið til bæjarins Milwaukee, þar sem þeir voru Stórutjarna feðgar, Haraldur, Páll og Þorlákur Jónsson, ásamt ýmsum fleirum, er þangað höfðu haldið rakleitt um sumarið. Höfðu þeir langa útivist á vötnunum og komu ekki til Milwaukee fyrri en 6. nóvember 1873. Þar var Friðjón á gistihúsi fyrstu nótt.

Daginn eftir fór hann að skima í kring um sig í borginni og vita hvers hann yrði áskynja. Var hann þá ekki áhyggjulaus um hagi sína, því þegar hann hafði goldið næturgreiðann á gistihúsinu, átti hann ein 15 cent í vasa. Var hann nú þarna staddur í ókunnu landi með konu sína og vissi nú ekki í hverja átt hann skyldi snúa sér. Loks er hann gekk eftir strætinu til að skoða sig um, kom hann að húsi einu, þar sem hnnn sér íslenzk föt hanga á stagi úti. Maður nokkur stóð fyrir dyrum, er hann þóttist kenna að væri Íslendingur. Varpar hann á hann kveðju sinni; er honum svarað á íslenzku og vel tekið. Er hann leiddur í stofu og tekinn tali. Hann litast um í stofunni og kemur auga á sæng eina þar í horni; var maður í sænginni, er snýr sér upp í horn og sefur. Eftir litla stund vaknar hann og snýr sér fram. Þenna mann þekti Friðjón þegar. Var það einn samferðamanna hans frá Íslandi, Eiríkur Bergmann. Var hann einn þeirra,er suður höfðu haldið rakleitt með síra Páli Þorlákssyni, er hann mætti hópnum í Quebec,og farið með 40—50 manns suður til Bandaríkja með sér. En allur var hópurinn, eins og áður er á vikið, 165 manns, er farið var frá Akureyri. En á leiðinni suður lenti þessi hópur í járnbrautarslysi og hafði Eiríkur meiðst nokkuð á fæti og lá nú í þeim meiðslum, þó ekki væri stórvægileg. Var hann undir læknis umsjá að fyrirmælum járnbrautar-félagsins og upp á þess kostnað.

Eftir dálitla stund kemur læknir þessi inn, að vitja um sjúklinginn. Hét hann dr. Martin, hinn mannúðlegasti maður, og gazt Friðjóni þegar sérlega vel að honum. Það þótti bera vel í veiðar, að Friðjón var kominn, því fremur var lítið um kunnáttu enskrar tungu hjá þeim, sem fyrir voru. En Friðjón kunni þegar ensku töluvert, er hann fór af Íslandi, hafði ,,túlkað" á leiðinni hið helzta, sem með þurfti, og æfzt nokkuð í að tala þær fáu vikur, sem hann nú var búinn að vera í landi. Þótti mönnum nú vænt um, að hann skyldi kominn og geta talað við lækninn fyrir hönd þeirra, er þarna voru. Þegar lækninirinn varð þess var, að hann kunni að mæla enska tungu, tók hann hann tali og fór að spyrja hann um hagi hans og ástæður. Friðjón kvaðst hafa komið þangað til borgarinnar kveldinu áður og vera nú að skygnast um og vita, hvort hann muni nokkuð geta fengið að gjöra. Vissi hann vel, að örðugt var um atvinnu, því bankahrun og peningaekla var mikil i landi um þessar mundir og atvinnubrestur mjög tilfinnanlegur. Kom þar samt, að dr. Martin þessi bauð honum til sín að fara, ef hann vildi. Kvaðst hann ekki geta goldið honum laun, en húsaskjól og fæði skyldi hann láta honum í té, svo eitt gengi yfir þá báða. Tók Friðjón boðinu með þökkum, en tjáði lækni að hann væri kvæntur maður, og eitt yrði yfir þau hjón bæði að ganga. Glotti þá dr. Martin við og mælti, að ef konunni sinni litist ekki lakar á konuna hans, en sér litist á hann, myndi hún sjálfsagt taka við henni líka. Áður kveld var komið þenna sama dag, var Friðjón kominn með konu sína til þeirra læknishjónanna. Var lækninum sérlega hlýtt til Íslendinga, því með honum hafði áður verið Íslendingur einn um tíma, Jakob Pálsson, stúdent frá latínuskólanum í Reykjavík, sem orðið hafði síra Páli heitnum Þorlákssyni frá Stórutjörnum samferða til

Ameríku 1872 og lagði fyrir sig læknisfræði. En hann var bilaður á heilsu og varð yfirkominn af berklaveiki um það leyti hann var með dr. Martin, Varð hann þá að fara frá honum og leggjast inn á spítala, þar sem hann mun hafa dáið árinu eftir (1874). Þóttist nú læknirinn, sem verið hafði Jakob hinn bezti og saknaði hans, góður af að hafa fengið Friðjón í stað hans.

Þarna voru þau hjón nú um veturinn. Kú og hest hafði læknirinn á stalli og varð Friðjón að gegna fjósstörfum, og líta eftir þörfum heimilisins. Það kom sér vel fyrir Friðjón, að hann kunni nokkuð dönsku, því læknirinn gengdi læknisstörfum að allmiklu leyti með Dönum og öðrum Norðurl.-mönnum, en all margt þeirra var í borginni. Hafði hann Friðjón með sér til að túlka, þegar hann var að vitja sjúklinga þessara, sem lítið eða alls ekki kunnu að mæla enska tungu. Auk þess hafði Friðjón bókfærslu alla á hendi fyrir lækninn. Svo leið veturinn.

Enn um vorið réðst hann til kaupmanns eins þar í borginni fyrir búðarmann. Fekk hann þá 7 dali um vikuna og þótti það gott kaup. Voru þeir Ólafur Ólafsson þá í samlögum með að taka hús til leigu og bjuggu þar báðir. Þarna var Friðjón þangað til í lok ágústmánaðar um sumarið. Fór hann þá austur til Toronto og tók að vinna þar á skógerðarverksmiðju. Þeir Baldvin L. Baldvinsson og Árni Friðriksson höfðu verið þar frá því haustinu áður.

En í janúar 1875 fluttist Friðjón þaðan og til Kinmount; tók hann þar við verzlan fyrir Sigtrygg Jónasson, eins og frá er sagt í þættinum um hann. Þar var hann þangað til um haustið, að lagt var af stað frá Kinmount og vestur til Manitoba í því skyni að nema þar lönd og stofna alíslenzka nýlendu, þar sem Íslendingar gæti verið út af

fyrir sig og notið þjóðernis síns sem bezt. Það haust fór Sigtryggur til Íslands í umboði DOMINION-stjórnar, af því kunnugt var um vesturfararhug mikinn, sem ríkti víðs vegar um land um þessar mundir.

Veturinn 1875 hafði komið til Kinmount maður einn að nafni John Taylor í eins konar heimatrúboðserindum. Kyntist hann Íslendingum og lét sér þegar mjög ant um þá. Gjörðist hann hvatamaður þess, að leitað var hjálpar hjá Kanada-stjórn handa Íslendingum til flutnings vestur til Manitoba; einnig var sótt um styrk-veiting handa þeim til að byrja þar búskap. Þegar lagt var af stað vestur, slóst hann í för sem umboðsmaður stjórnarinnar.

Fór hópur þessi vestur með járnbraut til Sarnia, en með gufuskipi frá Sarnia til Duluth. Þaðan fór hann með Norður-Kyrrahafsbrautinni til bæjar þess í Minnesota, sem Fisher's Landing nefndist. Liggur hann við Rauðará, skamt suður af Grand Forks í Norður Dakota. Þarna í Fisher's Landing voru næstu járnbrautarstöðvar við Winnipeg, svo ekki var alveg eins greiðfært á milli og nú er orðið. Frá Fisher's Landing var farið á gufubát norður eftir Rauðará. Við mynni Assinniboine-árinnar var numið staðar og lagt að landi. Hafði sú fregn borist norður, að von væri heilmargra Íslendinga að sunnan. Múgur og margmenni hafði því safnast saman, þarna niður við ána, til þess að sjá Íslendinga, sem margir þóttust vita heilmikil deili á, þó aldei hefði þeir séð þá. Ruddust margir með ákafa fram á bátana og spurðu: ,,Hvar eru Íslendingar? Sýnið okkur Íslendinga!" John Taylor varð eðlilega fyrir svörum, benti á fólkið, sem þarna var á bátnum, hér um bil 200 manns, og sagði: ,,Þetta eru Íslendingar! Þarna getið þið séð þá!" En enginn trúði. Menn áttu von á fólki, alt öðru vísi útlits en þetta. ,,Við vitum hvernig Íslendingar eru í hátt," sögðu þeir.

,,Það eru menn lágvaxnir, svo sem fjögur fet á hæð, fremur gildvaxnir og þreknir, með langt hár kolsvart, býsna-líkir Eskimóum. Þetta eru engir Íslendingar; þetta eru hvítir menn.'' Gamli John Taylor varð hálfráðalaus, en sagði þó með góðlátlegu glotti eins og honum var títt: ,,Þetta fólk hitti eg austur í Ontario-fylki. Þangað var það nýkomið frá Íslandi. Þar efaðist enginn um, að það væri Íslendingar, og eg er nú hingað kominn með þá í þeirrl traustu trú, að það sé ekta Íslendingar. En auðvitað getið þið trúað, hverju sem ykkur sýnist.''

Í hópi þessum, sem nú var til Winnipeg kominn, voru hér um bil 200 manns. Var þá komið fram um miðjan október (16. okt) og veður farið að kólna. Þar sem nú ferðinni var heitið út í óbygðir niður við Winnipeg-vatn, fundu allir til þess, hve áríðandi var að flýta ferðum sem allra-mest. Nokkura daga mátti þó til að nema staðar í Winuipeg til að kaupa nauðsynjar. Fundu þá allir til þess, hve efni voru lítil, enda hefir fátæktin sjaldan verið ömurlegri í sögu Íslendingsins, en einmitt þarna, er blásnautt fólk, klæðlaust og allslaust, ætlaði að leggja upp út í óbygðir, þar sem ekkert skýli var eða þak yfir höfuð, einmitt í vetrar-byrjan. En til allrar hamingju hafði Kanada-srjórn lánað þó nokkurt fé til vöru og nauðsynjakaupa og var því nú varið, sem bezt mátti, áður lagt væri af stað.

Sex flatbátar voru keyptir, til að flytja fólk og farangur. Voru flatbátar þessir stórir kassar, 36 til 40 fet á lengd, en 16 fet á breidd og full 6 fet á dýpt, með þiljum yfir að meira og minna leyti; það voru eins konar ferhyrndir dallar, nema hvað lengdin var meiri en breiddin. Voru tveir og tveir þeirra tengdir saman, en ár höfð að stýri framan og aftan og voru stýrimenn tveir, sinn við hvora ár, og urðu þeir að verða samtaka. Létu þeir berast fyrir

straumi ofan í árósa, eða þangað, sem áin tekur að greinast í kvíslir. Þar var þá gufubáturinn COLVILLE. Hann var eign Hudson's flóa félagsins og var eini báturinn, sem þá var til á vatninu. Dró hann flatbátana eftir sér niður á WILLOW-höfn svonefnda, skamt suður af því, sem Gimli-þorp nú stendur.

Þá var komin 22. október, er þangað var komið. Sama kveld var farið að skoða sig um og hyggja að, hvar byggilegast væri, og leizt mönnum bezt á blettinn, þar sem Gimli-þorp nú stendur. Mun Ólafur Ólafsson frá Espihóli fyrstur hafa stungið upp á nafninu. Meðan verið var að byggja hafðist kvenfólk og börn við á bátunum á nóttum. En karlmenn sváfu í leðurtjöldum, sem Indíánar nota, úr vísundahúðum. Byggingarefni var nóg, því ströndin var öll vaxin þéttum espi-skógi. JOHN TAYLOR var nú sá, sem helzt réð fyrir, þar sem hann var fulltrúi stjórnarinnar. Hann var mannúðar-maður hinn mesti og mælti svo fyrir, að fyrst væri skýlum komið upp yfir aumingja og lasburða fólk; þótti sú fyrirskipan bera vott um mannúðarþel og fyrirhyggju.

Fyrst af öllu var samt bjálkahús all-mikið gjört yfir varning þann, sem keyptur hafði verið í Winnipeg. En er honum hafði verið komið þar svo fyrir, að óhult þótti, var tekið að gjöra smá-íbúðarskála. Má nærri geta, að ekki hafi þeir verið sérlega reisulegir. Með alt gjörðu menn sig ánægða, gæti það að eins heitið, að þar hefði þeir þak yfir höfuð sér. En þar sem allir áttu að vinna í félagi, gekk verkið, sem var all-mikið, svo seint, að til vandræða horfði. Drógu margir sig í hlé og vildu komast hjá að leggja nokkuð á sig. Kvað svo ramt að þessu, að skynsömum mönnum kom saman um, að aldrei myndi verk þetta vinnast, ef félagsvinnu þessari yrði haldið áfram. Varð Friðjón Friðriksson til þess, að sýna Taylor

fram á þetta. Bágt átti hann með að skilja, að þetta væri annað en kenjar einar. Trú hafði hann svo mikla á mannkostum Íslendinga, að hann var næsta tregur til að trúa þessu um þá. Samt sem áður lét hann sér að lokum skiljast, að bezt væri, að hver færi sem fyrst að byrja á húsagjörð fyrir sjálfan sig. Þegar það ráð var tekið, fór húsagjörðin að ganga miklu fljótar, án þess nokkur liði, og síðast var fyrir öllum séð.

Af hópi þeim, sem kom til Winnipeg urðu nokkurir þar eftir og leituðu sér atvinnu. Eitthvað nálægt 160 manns mun hafa farið ofan til Nýja-Íslands. Fjöldinn af því var efnalaust fólk, eins og áður var tekið fram. Hefði ekki stjórnin hlaupið undir bagga, er óvíst hvernig farið hefði um afkomu fólksins. Það eru fremur litlar líkur til, að það hefði haldið í sér lífi yfir veturinn. En stjórnin hafði fyrst og fremst kostað 2,500 dala til ferðarínnar austan frá Ontario-fylki. Í Winnipeg munu vörur hafa verið keyptar fyrir svo sem annað eins (2,500). Og seinna bætti stjórnin við um veturinn, svo allur mun styrkurinn, sem þessum hópi var veittur, hafa numíð um 12 þúsund dala. Veitti þó ekki af, að fólkið hefði nóg af að lifa. Nokkuru af fé þessu var varið til að kaupa veiðiáhöld og útsæði til næsta vors.

Nákvæmir reikningar voru haldnir yfir allar þessar styrkveitingar. Var John Taylor sá, sem öllu réð um þær. En aðstoðarmaður hans við útbýting stjórnarlánsins og reikningsfærslu alla var Friðjón Friðriksson. Þeir reikningar voru allir lagðir fram um vorið og yfirskoðaðir af Ólafi Ólafssyni frá Espihóli, Jakobi Jónssyni frá Munkaþverá og Jóhannesi Magnússyni frá Dögurðarnesi. Um veturinn höfðu menn enga kú og engan kjötmat, nema skógarhéra-kjöt, vísunda-kæfu (*pemmican*) og saltað fleski. Einstöku maður komst upp á að veiða fisk upp um ís.

Um vorið 1876 fór Friðjón að verzla upp á eigin spýtur. Fremur mundi flestum hafa þótt það lítill höfuðstóll, sem hann hafði, til að færast slíkt fyrirtæki í fang, jafn-miklir örðugleikar og voru því samfara. Hann hafði komist yfir eina 50 dali, meðan hann var austur frá og haft með sér. Hafði hann þá óeydda um vorið. En síðan hann kom um haustið hafði hann kynst ýmsum kaupsýslumönnum töluvert og viðskiftalífi landsins. Hann hafði verið fyrir framan um vörukaup, var kunnur öllum þörfum fólksins og hafði unnið sér bæði tiltrú þess og tiltrú innlendra manna, sem við kaupsýslu voru riðnir. Honum varð því vel til, er hann leitaði til þeirra með að fá vörur til verzlunar sinnar, þó lítið hefði hann fé í boði. Mun vörumagn það, sem hann byrjaði verzlan sína með, hafa verið upp á 2—3000 dali. Varð hann að gefa handveð fyrir því, sem hann gat ekki goldið þegar í stað. En er að skuldadögum kom, hafði hann oft ekki fengið nema lítið fé upp í það, sem hann átti að gjalda. Varð hann þá oft að fara fótgangandi til Winnipeg, rúmar 60 mílur, og það í mikilli ófærð og vondum veðrum til að færa lánardrotnum sínum það fé, sem hann hafði. Gjörðu þeir sig oftast nær ánægða með það, sem hann færði þeim, hversu skamt sem það hrökk til fullrar skuldalúkningar. Og einlægt sáu þeir um, að hann hefði nógar vörur, til að fleyta verzlan sinni áfram.

Haustið 1876 sendi stjórnin mælingamenn vestur til að mæla út vegarstæði eftir allri nýlendunni frá norðri til suðurs og gjöra braut gegn um skóginn. Var það mikið verk, því þykkum skógi varð að ryðja af brautarstæðinu öllu. Við þessi störf fengu margir menn atvinnu, enda veitti ekki af, því mjög voru menn að þrotum komnir að efnum til, sem ekki var að furða, þar sem þetta var eina atvinnan, er boðist hafði, síðan fólkið kom til nýlendunnar.

Alt var þetta unnið undir umsjón þeirra John Taylor's og mælingamanns stjórnarinnar. En þeir fengu Friðjón Friðriksson til að vera gjaldkera fyrirtækisins. Sömdu þeir svo um við hann, að hann skyldi gjalda verkamönnum helming kaups í peningum, en hinn helminginn mætti hann gjalda þeim í vörum, með verði, sem þeir áliti sanngjarnt. Hlynti þetta töluvert að verzlan hans með ýmsu móti. Mest var um það vert, að peningar komu á þenna hátt inn í nýlenduna, sem ekki voru til áður, og verzlanin þurfti á að halda, því ekki er gott að halda verzlan við lýði, þegar engir peningar eru í aðra hönd og engar búskapar-afurðir heldur, er hægt sé að koma í verð. Það var í hag verzlunarinnar, að hann gætti þess, að selja ekki vörur sínar hærra verði en sömu vörur voru seldar í Selkirk, þó lengra væri að flytja þær alla leið til Gimli. En Selkirk var næsta kauptún við nýlenduna, þar sem eðlilegt hefði verið fyrir nýlendumenn að verzla, ef þar hefði verið hægt að komast að betri kaupum. En þar sem það var ekki, keyptu menn nauðsynjar sínar allar hjá Friðjóni Friðrikssyni, — eins fyrir þann hluta kaupsins, sem þeim hafði verið goldinn í peningum. Eins jókst verzlan hans að stórum mun, þar sem um 15 hundruð manns komu frá Íslandi sumarið 1886 til nýlendunnar og settust þar að.

Bóluveturinn 1886—7 var Nýja Ísland einangrað frá umheiminum, svo sóttin bærist eigi út um landið. Var vörður settur suður af nýlendunni, fyrir sunnan læk þann er Boundary Creek nefnist við braut þá, er stjórnin hafði gjöra látið. Nokkuru síðar var annar vörður settur miklu sunnar, 6—7 mílur norður af Selkirk-bæ og átti hann að vera í vegi fyrir allri umferð eftir ánni. Vörður þessi var látinn standa þangað til í júnímánaðarbyrjan. Var veikin þá um garð gengin fyrir nokkuru, en sótthreinsan ekki verið látin fara fram og þótti mönnum það dragast miklu

lengur en góðu hófi gengdi. Menn sátu þarna teptir og fengu enga björg sér veitt, ekki leitað sér atvinnu eða náð því til sín, sem mest vanefnaði um. Vörur voru fluttar frá Winnipeg upp að verðinum; en þangað voru þær aftur sóttar af nýlendumönnum. Loks kom leyfi um, að vörðurinn skyldi hafinn. Brá John Taylor þá við og tók sér far með gufubátnum LADY ELLEN. Var ferðinni heitið til Winnipeg til að kaupa þar jarðepli til útsæðis og alls konar garðfræ, er sá átti. En langt var komið fram á sumar, svo í eindaga var komið með sáning alla. En þegar hann kemur upp að verðinum við ána, hefir leyfið um að hefja vörðinn aftur verið numið úr gildi, svo hann fær ekki með nokkuru móti að halda lengra. Varð hann að snúa heim aftur sár í skapi,og þótti nú allar bjargir bannaðar. Kom hann í dagrenning til Friðjóns Friðrikssonar og þóttist hrakför farið hafa. Var hann næsta angurvær og spurði Friðjón til ráða. Kvaðst Friðjón ekki kunna annað ráð vænna, en að reynt væri að komast gegn um vörðinn með einhverjum brögðum, það væri ávalt skylda manna að bjarga lífi sínu. John Taylor bað hann blessaðan freista, ef hann sæi til þess nokkura vegi. Gjörði Friðjón þess kost, svo framarlega hann fengi fé og fararefni.

Hann leggur nú af stað gangandi, því ekki var um annað að gjöra. Grun hafði hann um, að vörðurinn við lækinn hefði enga vitneskju fengið um, að leyfið til að hefja hann væri afturkallað. Þóttist hann vita, að bréf til varðmannaforingjans þar, sem nýkomið var til Gimli frá stjórninni, væri þess efnis. En ekki er þess getið, að Friðjón þætti nauðsyn til bera að færa þeim bréfið. Hann var verðinum kunnur; hafði eitt sinn fengið áður að fara til bæjar í nauðsynja erindum; en þá höfðu föt hans verið vandlega sótthreinsuð og síðan hafði hann ekki komið nálægt bóluveiku fólki. Hann skýrir verðinum frá ferðum

sínum og erindum og þeir sjá enga ástæðu til að hefta för hans, þar sem vörðurinn sé hafinn. Hann heldur því leiðar sinnar, þangað til hann kemur upp að Nettle Creek. Þar verður hann engra var nema tveggja Indíána kerlinga, sem voru þar með báta sína. En þegar þær verða þess áskynja, að þarna sé Íslendingur kominn úr nýlendunni, verða þær dauðhræddar við veikina og leggja bátum sínum út á miðjan lækinn, en þverneita að ferja Friðjón yfir. Kallar hann þá til þeirra all-myndugur í máli, og segir þeim, að ferji þær sig ekki yfir lækinn, þegar í stað; geti svo farið, að allir nýlendumenn komi í herskáum huga og muni Indíánar þá falla bæði fyrir vopnum þeirra og veikinni. Skipar hann þeim í nafni h i n n a r m i k l u m ó ð u r — drotningarinnar — að ferja sig tafarlaust yfir. Skaut þeim þá skelk allmiklum í bringu og reru með hann á báti sínum eigi að eins yfir lækinn, heldur langan spöl upp eftir ánni.

Eftir þetta gekk erindið greiðlega. Friðjón keypti ein 300 bushel af jarðeplum til útsæðis handa nýlendubúum og heilmikið af garðfræi. Flatbát keypti hann í Winnipeg til að flytja þetta og réð til hans nokkura kynblendinga. Láta þeir berast fyrir straumi niður ána og gengur vel. Koma þeir í dagrenning þangað, er vörðurinn var við ána. Lét Friðjón kynblendingana skjóta sér í land, en sagði þeim að halda leiðar sinnar. Hálfdimt var og mýbit fjarskalegt. Sátu tveir varðmenn við eld til að fæla flugurnar frá sér með reyknum. Þeir kröfðu Friðjón sagna. Sagðist hann vera að fara ofan til Gimli með útsæði og aðrar nauðsynjar og koma frá Winnipeg. Enginn getur bannað honum að fara ofan eftir, hugsuðu þeir; hann á mest í hættunni sjálfur. Svo hann fær fararleyfi, því þeir hugsuðu ekki út í, hvernig hann hefði komist út fyrir vörðinn.

En það er að segja af Ný-Íslendingum, að þeim var næsta órótt út af sendiför þessari. Fregnin hafði fljótt borist út, að einhver Íslendingur hefði brotist út úr varðhaldinu. Hafði lögregluþjónn verið sendur tafarlaust til að handsama þann sökudólg, hvar sem hann kynni að nást, og var hann nú að leita hans með dunum og dynkjum. En svo heppilega tókst til, að þeir fórust hjá, svo Friðjón slapp heilu og höldnu leiðar sinnar. Þegar hann kom ofan í víkina, þar sem Kristján Jónsson átti heima, var John Taylor þar fyrir og heilmargir nýlendubúar aðrir, sem biðu þar með öndina í hálsinum, að þeir fengju einhverjar njósnir af sendimanni. Má nærri geta, að heilmikill fagnaðarfundur varð með þeim og Friðjóni, er svo heppiiega hafði tekist ferðin. Þótti nú leyst úr hinu mestu vandamáli og velferðar, þar sem útsæði var fengið og ofurlítill vísir til bjargar fyrir komanda ár.

En um tíma eftir þetta gekk sú saga staflaust með innlendum mönnum, að tveir væri Fríðjónar Friðrikssynir á Gimli. Væri annar þeirra all-snotur maður og fremur heiðarlegur og fengist við kaupsýslu ; hitt væri flækingur og prakkari og mesti viðsjálsgripur.

Fyrst er Friðjón Friðriksson tók að verzla, keypti hann tvo flatbáta í Winnipeg. Reif hann annan sundur til að styrkja hinn. Sigldi hann svo bát þessum fermdum vörum alla leið norður til Gimli og komst það heilu og höldnu. Affermdi hann þá varninginn allan og kom fyrir í vöruskála sínum. En bátinn reif hann sundur og notaði efnið úr honum í íveruhús handa sér. Næsta vetur gjörðu þeir Jón Bergmann og Jón Hallgrímsson stóran York-bát svonefndan fyrir hann. Var sá bátur notaður til að flytja vörur til verzlunarinnar allan þann tíma, sem Friðjón Friðriksson var á Gimli

Eins og kunnugt er, tilheyrði Nýja Ísland ekki Mani-

toba-fylki í fyrstu, heldur Keewatin-fylki og var að mestu fyrir utan landslög og rétt. Var alíslenzk sveitarstjórn mynduð, sem að mörgu leyti er merkileg, þar sem hún sýnir svo einkar ljóst, hve glöggar hugmyndir nýlendumenn höfðu um mannfélagsskipulag yfirleitt. Bygðarstjórar voru þeir kosnir Björn Jónsson í Víðirnesbygð, Bjarni Bjarnason frá Daðastöðum í Árnesbygð, Jóhann Briem í Fljótsbygð og Jóhann Straumfjörð í Mikley. Sigtryggur Jónasson var kosinn Þingráðsstjóri, en Friðjón Friðriksson vara-þingráðsstjóri. Þegar Framfari komst á fót, var Friðjón í stjórnarnefnd blaðsins með þeim Sigtryggi Jónassyni og Jóhanni Briem. Og þegar farið var að starfa að kirkjumálum með nýlendumönnum, tók hann fjörugan og áhugamikinn þátt í þeim, eins og ávalt síðan.

Í nóvember árið 1879 keyptu þeir Friðjón Friðriksson, Sigtryggur Jónasson og Árni bróðir Friðjóns gufubátinn VICTORIA og byrjuðu á að koma upp sögunarmylnu, til þess að koma skóginum, sem stóð þarna öldungis ónotaður, í sagaðan efnivið, sem svo gæti orðið verzlunarvara. Um þetta leyti voru útflutningar miklir byrjaðir úr nýlendunni fyrir atvinnubrest og óánægju. Átti sögunarmylnu fyrirtækið óefað mikinn þátt í, að Nýja Ísland gjöreyddist ekki að fólki. Vorið 1881 flutti Friðjón Friðriksson frá Gimli. Voru þá ekki orðnir eftir nema 16 búendur í Víðirnesbygð, og viðskiftamenn verzlunarinnar orðnir fáir. Það vor tóku menn að flytja til Argyle og í tvö ár hafði mikill útflutningsstraumur verið til Dakota. Fluttist nú Friðjón norður að Möðruvöllum við Íslendingafljót, þar sem Sigtryggur Jónasson hafði áður búið. Hann var þá fluttur til Winnipeg. Þarna við fljótið voru þau hjónin þangað til haustið 1884. Svo voru þau í Winnipeg og Selkirk tvö ár. En haustið 1886 fluttust þau til Glenboro norður af Argyle-bygð og voru þar í 20 ár eða þangað til

haustið 1905. Rak Friðjón þar verzlan öll þau ár. Voru efni hans lítil framan af, en samkepni við innlenda menn töluverð. Vantaði þó ekki hrakspár af þeirra hálfu um Íslending þenna, sem farinn væri að verzla. En svo fór, að allir þeir kaupmenn, sem þar voru honum jafn-snemma og margir fleiri, sem síðar byrjuðu þar verzlan, urðu gjaldþrota, en Íslendingurinn einn stóðst allar þær misfellur og óhöpp, sem verzlanin varð fyrir. Eitt haustið átti hann ógoldnar búðarskuldir, sem námu ekki minna en 10 þúsundum dala. Það ár var uppskerubrestur. Gat hann að eins heimt inn 4 þúsund og varð svo að byrja að lána aftur til næsta hausts (1889-90). Jarðir manna voru þá í lágu verði, naumast hærra en 800 dölum hverjar 160 ekrur. Var því til lítils að fá bændur til að tryggja skuldir sínar fasteignarveði. Höfðu þess konar veðbréf þá svo sem ekkert gildi og vildi enginn við þeim líta.

Auk verzlunar sinnar komst Friðjón yfir 2 jarðir og rak þar búskap í hjáverkum sínum. Nú á hann þar 5 jarðir, síðan hann seldi verzlan sína (1906) ungum mönnum og efnilegum, sem vaxið hafa þar upp í bygðinni. Reka þeir verzlanina af kappi og áhuga, ekki síður en af lagi og forsjá og er það Friðjóni fagnaðarefni, að hún þrífst svo vel í höndum þeirra, Nú er hann fluttur til Winnipeg með fjölskyldu sína.

Eins og tekið hefir verið fram, var Friðjón kvæntur, er hann flutti frá Íslandi. Heitir kona hans Guðný Sesselja Sigurðardóttir, bónda á Harðbak á Melrakkasléttu, Steinssonar, Hákonarsonar frá Grjótnesi.

Giftust þau 10. júlí 1873, daginn áður þau lögðu af stað af Melrakkasléttu til Ameríku. Þeim hefir orðið 5 barna auðið; tveir drengir dóu ungir, en þrjú lifa. Elzt þeirra er frú Aurora, kona Tómasar H. Johnson, lögfræðings, málfærslumanns og þingmanns í Winnipeg. Sonu

eiga þau hjón tvo; heitir annar þeirra Kári og er 19 ára, hinn Haraldur og er 15; báðir hinir efnilegustu.

Heimili þeirra hjóna hefir verið fyrirmyndarheimili að öllu, sem lengi mun í minnum Vestur-Íslendinga, þeirra er þektu. Hafa þau hjón verið samanvalin að háttprýði, snyrtimensku og öðrum mannkostum, svo alt það, er öðru þeirra má til gildis telja, er jafn satt sem hitt, og hefir heimili þeirra ávallt verið eins og sólskinsblettur í heiði. Sparsemi og hagnýtni hafa ávalt verið auðsæ í öllu, en þó á ekkert brostið, til þess alt væri í bezta lagi, og hafa fáir betur kunnað að sameina allsnægtir þessum fögru dygðum. Tökum vér það fram vegna þess, að hér verður oft brestur á fyrir mörgum, svo of mjög ber á bruðlunarsemi og því að menn kunna eigi að meta sem skyldi gildi þeirrar auðlegðar, er þeim berst í hendur.

Friðjón hefir verið manna gætnastur í öllu ráðlagi. Margir hafa safnað meiri auð, enda hefir hann naumast lagt hug á mikið auðsafn, en verið ánægður þá, er hann sá hlut sinn á þurru landi og elliárum nægan forða, svo lifa mætti þá áhyggjulitlu lífi. Þótt tími hafi verið naumur frá öðrum störfum, hefir hann varið flestum mönnum í sömu stöðu meiri tíma til bóklestrar og aflað sér fróðleiks bæði í innlendum málum og íslenzkum. Í garði innlendra manna hefir hann ekkert verið síður vel metinn en Íslendinga. Hann sat í skólanefnd Glenboro-bæjar 17 ár, mestallan þann tíma, er hann bjó þar, og átti góðan þátt í, að bærinn réð heppilega fram úr þeim málum og eignaðist ágætan barnaskóla eftir ástæðum. Trúnaðarmaður þeirra var hann í ýmsum fjármálafyrirtækjum og naut virðingar og trausts í hvívetna.

En aldrei hefir hann gjörzt svo hugfanginn af innlendum mönnum og hugsunarhætti þeirra, að honum hafi

gleymzt að vera Íslendingur. Hjá honum hefir Íslendingseðlið verið úr svo góðu efni gjört, að það hefir aldrei bilað í meir en þrjátíu ára stríði við erlent þjóðerni, heldur ávalt verið sjálfu sér líkt og sjálfu sér samkvæmt. Börnum sínum hefir hann öllum kent íslenzku, og dóttir hans, frú Aurora, kennir hana aftur börnum sínum. Hann er einn þeirra Vestur-Íslendinga, sem bezt hafa kunnað að sameina, að vera hvorttveggja í senn, góður Kanada-maður með þekking á landshögum og landsmálum eins og væri hann hér borinn og barnfæddur og um leið góður Íslendingur. Frjálslyndi og mannúð hafa verið sterkustu einkennin í hugarstefnu hans; hleypidómar og öfgar hafa honum verið fjarri skapi í öllum efnum, enda er fáum mönnum betur gefið að gæta stillingar og hófs í hverjum hlut. Og þegar einhver ágreiningur hefir verið á ferðum, hefir hann ávallt leitast við að bera friðarorð á milli og tengja saman aftur, þar sem sundur hefir slitnað.



# INNLENDUR VÍSIR AF FRAMANDI RÓT.

LAKE VIEW heitir einn partur Chicago-borgar; þar búa Þjóðverjar og fólk af þjóðverskum kynstofni. Húsin eru þar flest einloftuð timburhús og tvíloftuð leiguhús og nú upp á síðkastið stórir steinkastalar, hólfaðir sundur í smáar og stórar vistarverur. Þetta úthverfi heldur samt enn sérstöku sniði, ólíku því sem gerist annarsstaðar í borginni. Framundan húsunum eru falleg blómabeð, smáir gosbrunnar og hríslur og mörg önnur prýði, sem Þjóðverjum er tamt að hafa kring um húsin sín. Við eitt fáfarið stræti í þessum borgarparti standa mörg leiguhús, fulla húslengd frá strætinu og á bak við eitt þessara leiguhúsa stendur einloftað timburhús, fornlegt en vel málað og vel hirt. Þegar gott er veður, má oft sjá konu sitja á stól eða trébekk úti fyrir þessu húsi; hún situr aldrei auðum höndum, heldur ganga þær ótt og títt, hvort sem hún heldur á prjónunum sínum, hýðir baunir eða kartöflur. Svipur konu þessarar er hreinn og einbeittlegur og oft brosir hún með sjálfri sér og koma þá fram einkennilega unglegir spékoppar í kinnunum. Af þessu má ráða, að þankarnir hvíla engu fremur fingurnir.

Sá finnst ekki vor á meðal, karl eða kona, sem hefði ekki gott af einnar stundar viðtali við þessa konu, þó af almúgafólki sé. Hún heitir María Schuylart, bóndakona frá Flandern. Hún hefir lifað vel sínu lífi og unnið þarft verk um dagana; hún hefir verið árvökur og séð fullri sjón með sínum eigin augum það sem gerzt hefir í kringum hana. Og nú þegar hallar að ellinni, hefir hún öðlast þá glöðu hugarrósemi, sem er svo fágæt meðal fólks í Ameríku, og stafar frá þeirri meðvitund að hafa aflokið farsællega því verki, sem upp var tekið á ungdómsárunum.

Sagan af æfistarfi þessarar konu er í tvennu tilliti merkileg. Æfisaga hverrar manneskju, sem hafir barizt eins og hetja og lagt sjálfa sig í sölurnar, er öðrum upphvatning til eftirbreytni; hver sem setur sér vísvitandi göfugt markmið og leggur sig allan fram til að ná því, gefur öðrum fagurt eftirdæmi.

En þó að María Schuylart sé merkileg manneskja, góð móðir, góð húsfreyja og nytsamur borgari þjóðfélagsins, og því mikils virði fyrir landið, þá er saga hennar þýðingarmikil einnig að öðru leyti. Hún er ímynd þeirrar Ameríku sem er að skapast. Ekki svo að skilja að hávaðinn af því fólki sem flyzt til þessa lands sé henni líkur — hver mundi ekki óska að svo væri! — heldur er hún fyrirmynd þess bóndafólks, sem leitar hingað frá Norðurálfunni til að bæta kjör sín í þessu fyrirheitna landi. Æfisaga hennar sýnir eins og í skuggsjá upptökin að því, að fólkið streymir hingað, æfikjör þess hér og einbeitta baráttu til sigurs: — í stuttu máli hvernig Ameríku-borgarar verða til. En, sem sagt, þá á Maria Schuylart fáa sína líka, hún er fyrirmynd, afbragð þess fólks í öllum greinum.

Hún er fædd í Austurflandern í Belgíu; þar bjuggu

forfeður hennar á sömu jörðinni í marga mannsaldra og er það skemst frá að segja, að jörðin smáskiftist meðal ættingjanna; hver holaði sér niður á sína skák og minnkaði við sig, frá einni kynslóð til annarar, þangað til þröngbýlið stóð flestum fyrir þrifum. María kaus að leita burt, búa um sig á víðara bóli og einkanlega búa í haginn fyrir börnin sín og afkomendur í marga ættliði. Líkar ástæður hafa rekið margan bóndamann úr Norðurálfunni hingað til lands, en Marja hefir það fram yfir flesta aðra innflytjendur, að hún tók upp þessa fyrirætlun með einbeittum vilja og fylgdi henni fram með óbifanlegri staðfestu. Nú hefir hún náð því takmarki sem hún setti sér. Hún hefir komið upp átta börnum, sem eru Ameríkuborgarar hér á meðal vor, uppkomnir menn, gjafvaxta meyjar, ráðvönd, sjálfstæð, drenglunduð, með virðingu fyrir sjálfum sér og starfandi elsku til fósturjarðarinnar. Og úti fyrir koti sínu í Deering situr nú María og bíður ellinnar með hýrri lund og hugarrósemi, á sinni eigin lóð og hefir tekjurnar af fasteignum sínum til lífsuppeldis. Þar situr stundum hjá henni Louis, bóndi hennar, og er hættur að vera vinnuþræll, því að hann nýtur nú ávaxtanna af dyggri vinnu sjálfs sín og staðföstu ráði konu sinnar.

Louis og María uxu upp í sömu sveit í Belgiu og trúlofuðust um tvítugs aldur fyrir nálægt fjörutíu árum. Hvernig áttu þau að koma sér fyrir í framtíðinni og hvar? Og að lífinu loknu, hvað áttu börn þeirra að fá í arf? Þessar spurningar — og margur vor á meðal, sem mikillar skólagöngu og menntunar hefir notið, tekur þeim með ofmikilli lettúð — velti hún fyrir sér og bar þær loks upp fyrir bóndaefninu. Hann var ekki mikill framkvæmdarmaður en stundunarsamur var hann um verk sitt; þegar dagsverkinu var lokið, þá var honum nóg að setjast með

pípuna sína og hvíla sig og horfa á kærustuna sína þegjandi. Honum fannst vandalaust að svara því, hvað þau ættu að gera: vinna fyrir sér eins og forfeður þeirra, fá sinn part úr skákinni í sveitinni sinni, erja jörðina, eiga börn, koma þeim upp og deyja. Hvað annað áttu þau að gera?' Þetta höfðu foreldrar þeirra gert og forfeður, maður eftir mann. Það var eðlilegt og sjálfsagt, fannst honum, að fylgja þeirra dæmi.

Louis var seinn til als og fastheldinn við það gamla. ,,Þegar eg vil fá eitthvað gert,“ segir Maria, ,,þá byrja eg að ýta undir hann, missiri áður en eg vil láta byrja á því. Vísast vill hann þá ekki heyra það nefnt og þá fer eg strax ofan af því. Næst þegar eg brýt upp á því, þá kemur hann með mótbárur. Hann talar um það oft og einatt, en alla tíð á móti. Eg segi ekki mikið en færi það oft í tal. En svo þegar minn tími kemur, þá segi eg: 'Nú er tími tilkominn að gera þetta, sem eg hef verið að tala um við þig. Það er bezt við byrjum á því í dag'.“

,,Allright!“ segir þá hann.

Þannig vann hún hann til þess að fallast á Ameríkuferðina, og undireins og það var útkljáð á milli þeirra, þá sendi hún hann á undan sér til framtíðarlandsins, til að búa um sig og grundvalla framtíð þeirra. Hann kom til Chicago og fekk vinnu, slíka sem stór og sterkur en mállaus útlendingur á hægast með að fá, að moka kolum úr járnbrautarvögnum hjá félaginu Illinois-Central. Fyrir þetta fekk hann dollar og kvart á dag. Þegar hann var búinn að búa um sig á þennan hátt, þá kom María á eftir honum. Þau voru rétt álíka og innflytjendur gerast, iðjusamari, greindari, mikils meira virði að vísu en allur þorrinn af þeim þúsundum sem lentu í þá daga í Jamestown eða Plymouth, en í fljótu bragði að sjá voru þau mjög áþekk þeim sem nú stíga í land á Ellis Island, hundruðum

saman á hverjum degi. Þau leigðu sér herbergi í fátækum borgarhluta, nokkrar mílur frá kolaportinu og byrjuðu nú búskapinn.

Margur hefir orðið að brjóta þá hnúta hér í Ameríku, að halda heimili og hafa ekki meira fyrir það að leggja en dollar og kvart á dag. Að láta þá upphæð hrökkva til allra nauðsynja: fæðis, eldiviðar, húsnæðis, fata og þar á ofan til vagnagjalds, meðala, ófyrirsjáanlegra útgjalda, og það fyrir tvær manneskjur, — það virðist í fljótu bragði ekki árennilegt, einkum þegar fleiri bætast fljótt við, einn, tveir, þrír eða fleiri, sem vanalegt er á verkamannaheimilum. María leysti úr þessu skjótt og skörulega á þann hátt, að þau skyldu ekki hafa nein útgjöld til meðala, skemtana né strætisvagna, og engin óviss útgjöld hafa. Hún ætlaði sér að gegna svo húsfreyju- og matseljustörfunum, að bóndi hennar og börn hefðu holla fæðu og nóga og væru þess vegna hraust til heilsunnar, og það ásetti hún sér, að hafa það snið á heimilinu að hann þyrfti ekki að leita til veitingaskála eða leikhúsa til að stytta sér kveldið. Því var það ekki annað en fæði, fatnaður, eldiviður og húsaleiga, sem kaupa varð fyrir dagsverkið. Fatnaðarútgjöldin urðu smá hjá henni; hún hafði lært eitthvað til sauma í uppvextinum og hún var engu síður sparsöm á föt heldur en skildingana. Louis hafði lært að gera við skó; hann keypti brúkaðan skófatnað og gerði við hann á kvöldvökunni, svo að þau höfðu alltaf hlýtt og nett á fótunum fyrir sama sem ekkert verð. En um viðurværið er það að segja, að María hafði í uppvextinum lært þá list, sem er ómetanleg fyrir fátæka húsmóður, að búa til nærandi og lystuga fæðu úr rýru efni — en sá þáttur uppeldisins er því miður allt of oft vanræktur bæði meðal ríkra og fátækra. — Hún var glögg í öllum kaupum og fljót að finna hvað skást var í úrganginum í ketsölubúð-

inni, sömuleiðis var hún viss með að velja það skásta úr matjurtahrúgunni. Og súpunnar sem hún bjó til af þessu mætti auðugur maður óska sér — ef hann hefði matarlyst verkamannsins. Það sem hún bar á borð var holt, lystugt, gott til undirstöðu og altaf til á vissum tíma

Eg ætla að það sé öllum ljóst, sem eru kunnugir lífi fátæklinga í borgum, að lélegt viðurværi, óhönduglega matreitt,eigi mikinn þátt í drykkfeldninni. Ef verkamaður fær sig varla saddan þegar hann kemur heim, eða kaldan eða óhöndulega tilreiddan mat, þá er hætt við að hann labbi út á eftir og leiti sér hressingar annarsstaðar þar sem hann er viss um að fá hana. Louis þurfti þessa ekki við. Hann lét sér nægja súpuna hjá Maríu. Og þegar hann kom heim á kvöldin eptir langan vinnudag og langa göngu, þá var hann til í að fá sér vænan skerf af henni; eftir það tók hann sér stundar hvíld, skrafaði við konuna og dútlaði við skósmíðina þangað til hann fór í rúmið.

Dollar og kvart á dag eru smáar tekjur, en það reyndist nægta nóg fyrir Maríu Schuylart. Sex börn átti hún áður en hún hafði meira úr að spila. Hún lagði kaup bóndans óskert inn á banka frá upphafi, og tók aldrei út meir en til brýnustu nauðsynja. Stærsti útgjaldaliðurin var húsaleigan, og hann var henni sízt um. Hún leitaði fyrir sér og fann loks stað sem hún festi hug á, í einum útjaðri borgarinnar, þar sem nýlega var búið að skifta margra mílna svæði í bygginga-lóðir. Land var þar ódýrt, en engar stéttar voru þar komnar né stræti, hvorki vatn, ljós né sorpræsi, ekkert nema flatneskjan með leirpyttum og múrsteinshrúgum. Þaðan voru sex mílur eða meir til kolagarðsins, þar sem bóndinn vann, en landið var ódýrt og María ásetti sér að kaupa þar lóð.

En Louis var ekki alveg til í það. Hann þverneitaði fyrst. ,,Við skulum vera kyr þar sem við erum. Húsa-

leigan er ekki há, til þess að gera. Við getum flutt okkur hvenær sem við viljum og hvert sem við viljum. Því ættum við að fara að braska í lóðarkaupum?"

„Barnanna vegna," sagði hún, og það réði. Hún tók alt sem þau áttu í bankanum og festi kaup í lóðinni; þegar hún var borguð að fullu, þá fekk hún lán út á hana og lét fara að byggja hús á henni. Það var hvorki stórt né mikið í það lagt, kring um 400 dollara virði, og þaraf varð hún að borga vátryggingargjald, til þess að fá lánið; skuldirnar á því voru að vísu miklar, þegar miðað er við dollar og kvarts tekjur á dag, en nú þurfti enga húsaleigu að borga og þau tóku Frans, bróður Louis á kost og húsnæði fyrir 3 dollara um vikuna og reyndist það góður stuðningur.

Þarna var þvínær engin bygð komin, eins og eg sagði, og hvorki vatn né ræsi. María fekk vatn til þvotta úr tjörnum og pyttum í kríngum sig, en neyzluvatn varð hún að sækja langar leiðir í næsta hús með vatnsleiðslu. Louis fór á fætur í býtið á hverjum morgni, hvernig sem veður var, bæði vetur og sumar og þrammaði sína 6 mílna leið til vinnunnar og sömu leið tilbaka á kvöldin, og hafði aldrei orð um. Þannig liðu fram stundir, að ekki varð nein breyting á högum þeirra, nema að börnunum fjölgaði ár frá ári.

Þau voru hraustbygð, áttu góða aðbúð og voru heilsugóð, kvikleg og vel hirt. Þar kom, að þau urðu svo mörg, að þau komust ekki fyrir í kofanum; þá lét María byggja ofan á hann. Seinna lét hún flytja hann á afturpart lóðarinnar og byggja tvílopað hús úti við strætið. Það kostaði 1200 dollara. Þau höfðu aldrei átt né jafnvel séð svo mikið fé, en þau pantsettu lóðina og húsið, vátrygðu nýja húsið áður en það komst upp og fengu nokkuð af láninu strax og alt þegar það var fullgert. Þau

komust í nokkur hundruð dollara skuld, en tóku nú húsaleigu af öðrum.

En þau brugðu ekki venjum sínum fyrir þetta. Louis þrammaði hálfa þingmannaleið á dag eptir sem áður og fekk Maríu umslagið sitt óopnað á hverju laugardagskveldi. Þar að auki stundaði hann skósmíðið þegar heim kom, saumaði og bætti sína skó, hennar og barnanna og stundum fyrir nágrannana, þegar sléttan fór að byggjast. María fór á fætur og byrjaði dagsverkið löngu fyrir birtingu á morgnana, og frameftir öllu kvöldinu sat Louis við skósmíðið. Dagarnir voru langir hjá þeim og næturnar stuttar, en þau höfðu gott viðurværi, glaða lund og sáu árangur af erfiði sínu, og því héldu þau góðri heilsu.

Nú liðu stundir fram og altaf smá bættist við það sem þau lögðu upp. Skuldin af „framhúsinu" smáborgaðist með leigunni af því. Þegar hún var að fullu greidd, keypti María aðra lóð rétt hjá og reisti þar hús, sem hún leigði út. Seinna keypti hún þriðju lóðina og reisti sömuleiðis hús á henni, en ekki var brúkað einum eyri meir til heimilisþarfa fyrir því. Louis vann fyrir 40 doll. um mánuðinn og það var látið duga, þó börnunum fjölgaði. Þau eignuðust ellefu, átta lifðu, sex drengir og tvær stúlkur.

Barnanna vegna hafði verið ráðist í Ameríku-ferðina og þeirra vegna höfðu þessi hjón lagt á sig og sparað. María hafði ekki vanrækt þau, þó hún legði kapp á að koma fyrir sig efnunum, heldur vandi hún þau svo, að þau urðu, þegar þau þroskuðust, samboðin því landi, sem hún hafði valið þeim fyrir fósturjörð. Þeirra vegna horfði hún ekki í dálítinn kostnað, ef svo bar undir, svo sparsöm og nýtin sem hún var. Til dæmis að taka, þá höfðu allir nágrannar hennar matjurtagarða að húsabaki, til mikilla drýginda fyrir heimilið, en garðurinn hjá Schuylarts-hjón-

unum var grasi gróinn. Einn nágranninn frétti Maríu hvað til kæmi og fekk það svar, að ef hún hefði kálgarð að húsabaki, þá hefðu drengirnir sínir engan stað til að leika sér nema götuna; hún vildi síður vita þá í götusollinum en heima við.

Skamt þaðan sem þau áttu heima, var barnaskóli. Þar var alltaf eitthvert Schuylarts barnanna í meir en tuttugu ár. Allan þann tíma voru engin börn betur séð þar, heldur en þau. Þó foreldrarnir hefðu ekki meir en 40 dollars mánaðarlega til viðurværis, þá fundust þar engin börn betur útlítandi né betur hirt en þau. Það kom aldrei fyrir að þau sæjust þar í öðru en stagbættum fötum, en rifin eða götug komu þau aldrei í skólann. Það var alvani, að börn komu matarlaus þangað og hjengu við lærdóminn hugsunar- og fjörlaus af sulti, en Maríu börn voru heilsugóð og bragðleg, viðbragðsfljót, kát og fjörug.

Þó að María ynni þannig og hugsaði öllum stundum fyrir heimilinu, þá hafði hún samt tíma til að hugsa um aðra, og við bar það, að hún gaf bágstöddum nágranna af fátækt sinni, og öllum réð hún heilræði, sem leituðu til hennar, því að þó hún væri ekki menntuð, þá hafði hún til að bera nokkuð sem er betra en skólaganga, en það er greind. Þetta sýndi sig þegar taugaveikin geysaði í Lake View. Þá var hart í ári, veturinn aftaka harður og atvinna lítil eða engin. Þegar leið á veturinn, smáfækkaði í skólunum; sum börnin lágu í taugaveikinni, sum gátu ekki sótt skólann fyrir klæðleysi. Kenslu-stúlkurnar reyndust þá sjálfum sér líkar, söfnuðu samskotum til klæða og fæðis hinum nauðstöddu og lögðu út til að húsvitja heimilin og stunda þá sjúku. Mæðurnar þektu ekki á veikina og kunnu ekki að hjúkra börnunum, reyndu að næra þau á soðkáli og rúgbrauði eins og heilbrigðu

börnin, með sorglegum afleiðingum vitanlega og því var eptirlit og tilsögn í aðhjúkrun mjög áríðandi.

Kennslukona kom í hús, að vitja um veikt stúlkubarn, er hafði gengið í skóla til hennar. Þegar hún kom þangað, var móðir telpunnar að reyna að troða í hana ketstöppu, hugsaði að hún hefði bezt af því, þó að hún væri þungt haldin af taugaveiki. Kenslukonan reyndi að gera henni skiljanlegt, á hennar máli, þýzku, að hún mætti ekki gera þetta, en það virtist ekki hafa mikinn árangur. Þegar hún kom út, stóð þokkaleg kona úti fyrir næsta húsi, kallaði til hennar og sagði á bjagaðri ensku: ,,Hugsa þú ekkert um telpuna þá arna, eg skal sjá um hana héreftir, eg veit hvernig á að meðhöndla þessa veiki, — engin meðöl segir læknirinn. Eg sæki heim börnin á hverjum degi og gef þeim súpu eins og þau geta í sig látið. Hún er ekki fær nm að tarna, hún móðir þeirra, vesalingurinn, hún kann ekki til með neitt; því fer maðurinn út á knæpu á kvöldin, og svo hafa þau aldrei neitt til neins, þó hann vinni fyrir 4 dollars á dag.'' Stúlkunni þeirri batnaði, og margt barnið, soltið og ílla stundað, fekk heilsu og krafta fyrir hugulsemi bóndakonunnar frá Flandern.

Samt vildi hún enga hjálp, þegar hún var veik sjálf. Kenslukona kom eitt sinn við hjá henni, á leiðinni til skólans; þá sat hún upp við dogg í rúminu og var að hýða kartöflur. Hún lypti upp ábreiðunni og sýndi henni nýfætt barn — fyrstu stúlkuna sem hún eignaðist. ,,Hugsaðu ekki, að eg gefi börnunum kartöflur á hverjum degi,'' mælti hún, ,,eg komst ekki á markaðinn að kaupa ket í dag; á morgun fer eg þangað, því þetta er of dýr hversdagsfæða.''

Telpan sú óx upp og er búin að ganga gegnum barnaskóla og verzlunarskóla og hefir lagt sinn skerf til

heimilisþarfa um mörg ár. Louis er hættur að þræla og seztur í helgan stein með Maríu. Hennar erviði er og lokið. Hún hefir nú ekki annað að gera en leiðbeina og stjórna.

Eg kom til hennar ekki alls fyrir löngu og þá sagði hún mér æfisögu sína á þá leið sem eg hef sagt frá henni hér. Við sátum úti fyrir húsdyrunum hjá henni og töluðum lengi saman. Hún talaði bjagaða enskuna og andlitið skifti svipum snögglega eftir umtalsefninu, á meðan hún sagði mér af því hvernig hún fór að komast í efnin. En það undraði mig mest, að þessi útlenda kona skyldi vita hvað hún ætlaði sér alla tíð frá því fyrsta, og fylgja því vísvitandi og einbeittlega á hverjum degi, og geta nú litið yfir það sem hún hafði afrekað um dagana með fullkominni ánægju. Hún talaði með aðdáun um bónda sinn, einkum þegar hún minntist á drykkfeldni verkamanna, og það gerði hún opt. Engum er ljósara en henni, hvílík bölvun vínið er fyrir verkamenn.

,,Louis var alltaf góður eiginmaður,“ mælti hún. ,,Hann kom með kaupið sitt í hver vikulok, eins og það var, og fekk mér, og eg lagði það í bankann. Hann lét sér nægja ef eg fekk honum fimm cent eða stundum tíu, og sagði honum að fara og fá sér öl fyrir það, og þó kom það ekki oft að. Það var ólíkt hinum bændunum hérna í kring. Einu sinni leigði maður hjá mér efra loptið í framhúsinu; honum varð eg að segja upp, af því hann gat ekki borgað húsaleiguna, og þó hafði hann 20 dollars um vikuna. Mér þótti leiðinlegt að reka hann burt, af því hann átti svo væna konu, en eg þurfti skildinganna með, og leið þau eins lengi og eg gat. Þó ótrúlegt sé, þá gat hann sjaldan fært henni meir en 50 cent af vikukaupinu — einu sinni aðeins tíu — hitt fór fyrir vín. Eg sé alla hótelhaldara verða ríka hérna í kring, og eg segi við

nágrannakonurnar: þangað er það að kaupið fer hjá mönnunum ykkar. En það tjáir ekki mikið að tala um að tarna.

Svo er það þetta sem mér fylgir: eg get aldrei séð neitt fara til ónýtis, ekki brauðbita, hvað þá heldur annað. Eg segi: það var hreint þegar það kom inn í húsið og skal ekki saurgast hér, og meðan það er hreint, þá er það mannamatur; ef börnin skilja eptir brauðbita á diskinum hjá sér, þá fleygi eg því ekki, heldur borða það sjálf eða geymi til næsta máls. Maður bjó í framhúsinu einu sinni. Hann hafði 4 dollars á dag í kaup; en konan jós út meiru með teskeiðum um bakdyrnar, heldur en maður hennar gat mokað með skóflu innum framdyrnar. Sumar vikurnar var meiri matur í ruslakassanum hjá henni, heldur en eg keypti handa mínu heimili alla vikuna. Þau áttu ekki nema þrjú börn; samt kemur hann til mín einu sinni og segist verða að fara úr húsinu; hann geti ekki borgað húsaleiguna. Hann viti ekki hvað til komi, að hann vinni fyrir miklu kaupi, en sjái ekki hvað af því verði. Eg vissi það. Það fór í ruslakassann konunnar.

Annað er það líka. Eg á nú átta börn — og betri börn eru ekki til. Aldrei nokkurn tíma hefi eg öfundað aðrar mæður af þeirra börnum. Eg hef aldrei sagt sem svo, að annara börn væru vænni eða betur til fara eða betur vanin, eða hefðu betra til að leika sér við eða kostuðu meira upp á sig. Aldrei. Heldur sagði eg við sjálfa mig: Það finnast ekki heilsubetri börn í Deering eða jafnvel í allri Chicago, og engin sem hafa betra viðurværi, þó það sé ekki kryddað eða margréttað. Þau eru heilsugóð. Og aldrei sáust börnin mín úti í rifnum fötum eða götugum sokkum eða óhrein. Alltaf var eg að þvo og bæta og gera við og stoppa. Eg kærði mig ekki um, hvort það var fínt eða fallegt, sem þau voru í. Hvað um það,

hlýtt var það og hreint og hollt og það var mér fyrir mestu, skal eg segja þér.

Fólk segir, að eg hafi átt ervitt um dagana. Að vísu. Eg hefi æfinlega orðið að halda í hvern eyri eins lengi og mér var með nokkru móti mögulegt. Eg hef orðið að vinna og spara. En eg hef uppskorið ríkulega. Blessuð börnin — þau voru svo góð!"

Þarnæst sagði hún mér hverja atvinnu hvert hefði. Alphonse, elzti sonurinn, komst í búð þegar hann var búinn í barnaskólanum, fekk 10 dala kaup um mánuðinn og seldi blöð á heimleiðinni, til að vinna upp fargjaldið. Samt var ekki brúkað einu centi meira til heimilisþarfa. Aðeins var 10 dölum meira lagt inn í bankann á hverjum mánuði, því að Alphonse færði henni umslagið sitt óskert á hverri viku, eins og faðir hans hafði gert. ,,Alphonse er vænn piltur," sagði Maria, ,,og var alla tíð eptirlátt barn. Þegar hann varð 21 árs, þá fekk hann afmælisgjöf í fyrsta sinn — eg gaf honum tíu cent til að skemta sér fyrir."

Hann giftist þegar hann var 26 ára, og vikuna næstu á undan færði hann móður sinni umslagið sitt ósnert að vanda. Hann býr nú í einu af húsum Mariu og hefir eftirlit með þeim og innheimtir húsaleiguna fyrir hana. Annar sonur hennar vinnur við járnsteypu, hefir stundað þá iðn í Englandi, í Kína og víðar, er nú giftur og seztur að í ríkinu Washington.

Af dætrunum er Maria öllu stoltari en drengjunum. Þær fóru báðar í verzlnnarskóla, Maria, sú eldri, þegar hún var 14 ára. Hún hafði röggsemina af móðír sinni; þegar það dróst, að skólinn útvegaði henni stöðu, eins og til stóð, þá fór hún og útvegaði sér sjálf atvinnu í heildsölu-húsi inni í borginni.

Þannig rakti Maria sögu allra barna sinna. Eg

spurði hana að lokum, hvað hún hefði fyrir stafni sjálf, hvort hún færi ekki stundum inn í borg, að skemmta sér.

,,Aldrei,'' svaraði hún skjótt. ,,Það kemur fyrir að eg geng hjerna út að hliðinu og lít útá götuna, tvisvar í mánuði eða svo. Annars held eg mig heima við, fæ mér eitthvað að dútla við, sit hérna úti með það, renni huganum til þess sem liðið er og íhuga hvað verða muni seinna meir.

Alphonse vildi alltaf fá mig til að koma með sér í skemtigarðana og leikhúsin, svo að eg lét tilleiðast einu sinni og fór með honum og Mariu litlu í leikhúsið. Það er stórt og mikið hús, það er víst. Þar voru ljós og hljóðfærasláttur. Upp fór tjaldið von bráðar og kemur út maður og segir eitthvað, svo allir fara að hlægja. Hann fer um allan leikpallinn með ýmsum tilburðum og fólk hlær. Hann hlær og margir hlægja að því. Hann syngur og enn fleiri hlægja. Og þessi undarlegu læti ganga lengi. En því hefir maðurinn þessa tilburði? Ekki skil eg í því. Eg skil ekki hvað hann segir né hvað hann syngur né hvers vegna hann lætur svona undarlega. Því segi eg við Alphonse þegar við komum heim: ,,Aldrei fer eg í leikhús optar. Þið Maria skuluð fara, úr því að þið skiljið hvað fram fer og hafið gaman af því. En eg er orðin gömul og er búin að reyna og sjá margt. Eg sezt hérna út fyrir á daginn og á kveldin þegar gott er veður og lít yfir það sem hefir drifið á dagana; það er bezta skemtunin mín, drengur minn.'' Þá hugsa eg opt með sjálfri mér: Hvað skeði þennan dag fyrir svo og svo mörgum árum? Hvar var eg þá, og hvað ætlaði eg mér að gera þann dag? Nú, — gerði eg það? Hef eg komið öllu í verk, sem eg ætlaði mér? Hef eg lokið dagsverkinu?

Á hverju ári og hverjum degi hef eg komið einhverjum

ásetningi í verk. Mér þykir vænt að hugsa til þess nú. Og marga ánægjustund hef eg lifað, sem eg hef gaman af að rifja upp fyrir mér, þegar eg er ein, ellegar eg hugsa til fólks sem eg hef þekkt, hvernig það hefir hagað sér í lífinu — hefir það gert eins og það gat?

Það er sjaldan að eg hef ekki eitthvað fyrir stafni, því að eg kann ekki við annað. Eg meina að leikhús séu fyrir þá, sem hafa ekki neitt í sjálfam sér til að festa hugann við, hvorki endurminning né íhugun þess sem hefir drifið á daga þeirra. Þeim geta trúðarnir stytt stund með kynlegum látum. Mér ekki — nei, nei, líf mitt er mér of dýrmætt til þess."

Og þó ekki væri annað hafandi eptir Mariu Schuylart en þessi seinasta hugsun, þá ætla eg, að við mættum hver og einn hlusta á hana og íhuga það sem hún segði. Þessi aðkomukona hefir alið upp börn, sem eru nú starfandi meðal vor og hafa meiri og meiri áhrif á þjóðlífið, ef til vill í marga ættliði. Hún hefir skenkt ríkinu þroskamikla syni og góð húsfreyjuefni. Hennar æfistarf er eftirbreytnisvert og því er saga hennar hér skráð. En lýsing er aðeins svipur hjá sjón. Þegar eg kvaddi, þá óskaði eg þess í huganum, að eg gæti sent alla lesendur mína að dyrunum hennar — til stundar viðtals við einfaldan heimspeking og dyggan borgara.

K. S. þýddi.

---

## SAGAN AF NAFNLAUS.

Eftir CHARLES DICKENS.

HANN bjó á bakka afar mikillar elfar, breiðrar og djúprar, sem leið jafnt og stöðugt og þegjandi út í geisi-mikið og ókannað haf. Frá sköpun veraldar hafði hún liðið áfram. Stundum hafði hún breitt stefnu sinni og gjört sjer nýja farvegu og látið hina eftir auða og tóma, en allt af hafði hún liðið áfram og var áskapað að líða án afláts áfram þangað til tíminn sjálfur væri undir lok liðinn.

Enginn skapaður hlutur fekk reist rönd við því hyldýpis straum-magni. Engin skepna, ekkert blóm, ekkert laufblað, ekkert duftkorn, dautt eða lifandi hafði nokkru sinni skolað upp aftur frá hinu ókunna hafi; út í það rann elfurin með ómótstæðilegum straum-þunga og nam aldrei staðar, ekki fremur en jörðin á umferð sinni í kringum sólina.

Hann átti við mikinn eril að búa og vann baki brotnu fyrir lífi sínu.

Hann gjörði sér engar vonir um, að verða nokkurn tíma svo við álnir, að geta framfleytt lífinu eins mánaðartíma án þess að púla og pjakka, en hann lét sér nægja, guð veit það, að vinna af fúsum vilja. Hann tilheyrði afar-stórri fjölskyldu; allir hennar synir og dætur öfluðu

sér daglegs brauðs í daglegum svita síns andlitis frá því á morgnana árla, að farið var á fætur, og þangað til á kvöldin síðla, að gengið var til hvíldar. Út yfir slík forlög sá hann ekki og girntist heldur ekki að sjá.

Það vantaði ekki bumbuslátt og lúðurblástur í nágrenni hans, en þar átti hann engan hlut að máli. Sá gauragangur og glamurkliður kom allur frá Herruðu ættinni. Hann furðaði sig allan á hinu óskiljanlega atferli þeirrar ættar. Hún reisti upp hin ankringilegustu líkneski úr járni, marmara, eir og kopar úti fyrir dyrum hans og gjörði skuggsýnt í húsinu með alls konar óhugnaðar ferlíkum ekki ósvipuðum hestum. Hann furðaði stórum á því, hverju slíkt mundi sæta, svo glotti hann dálítið rustalega, en góðmannlega, að öllu saman og hélt áfram að strita.

Herraða ættin, sem samanstóð af öllu stórmenninu í grendinni, og hínu hávaðamestu, hafði færst í fang að létta af honum því ómaki, að hugsa fyrir sig sjálfan og að stýra honum og sýslan hans.

,,Nú, jæja,'' sagði hann, ,,eg hefi ekki mikinn tíma aflögu, og fyrst þér viljið gjöra mér þann greiða, að hugsa fyrir mig og hafa hönd í bagga með mér í stað hins litla sem eg get látið af hendi rakna við yður í peningalegu tilliti'' — því Herraða ættin var ekki hafin yfir peninga hans — ,,þá er miklu af mér hrundið, og eg yður mjög þakklátur, hugsandi sem svo, að þér vitið bezt hvað til míns friðar heyrir''. Til þess var einmitt leikurinn gjörður með bumbuslættinn, lúðurblásturinn, ræðuhöldin og hin viðbjóðslegu hestaferlíki, sem til var ætlast, að hann félli frammi fyrir og tilbæði.

,,Eg botna svo sem ekkert í þessu,'' sagði hann og nuddaði vandræðalega hrukkótta ennið á sér, ,,en eitt-

hvað merkir það þó, býst eg við, ef eg að eins gæti gripið það.“

„Það merkir,“ svaraði Herraða ættin, sem þótti orð hans heldur en ekki tortryggileg, „heiður og vegsemd í æðsta veldi æðstu verðleika.“

„Ja, uú er eg hissa,“ sagði hann, og glaðnaði við.

En þegar hann fór að litast um á meðal þessara líkneskja úr járni, marmara, eir og kopar, datt honum í hug að reyna að finna þar minnismerki vinar síns, sem hann hafði þekkt til forna, og verið hafði hinn nýtasti maður, en það heppnaðist honum ekki; hann fann enga af því tægi. Hann gat ekki fundið neinn þeirra manna, sem með vitsmunum sínum höfðu frelsað hann og börn hans frá aumasta og afskræmilegasta vesaldómi, sem með hugrekki sínu höfðu leyst forfeður hans úr ánauð, sem með andríki sínu höfðu tryggt hinum lágu og lítilsigldu nýja og göfuga lífsvegu, sem með ráðsnilli sinni höfðu bætt hag verkamannanna með ógrynni fjár og furðuverka. Á hinn bóginn fann hann aðra, sem honum voru ekki kunnir að neinu góðu og enn aðra sem honum voru kunnir að illu einu.

„Eg botna ekkert í þessu,“ sagði hann og ræskti sig.

Að svo mæltu fór hann heim og settist í arinskotið sitt, að reyna að fá þessu útrymt úr huga sér.

Það var næsta fátæklegt og tómlegt þetta heimili hans, sem var innilukt á alla vegu af óþverralegum rökkur-dimmum strætum, en þrátt fyrir það, var honum það hjartfólginn staður.

Konan hans hafði fengið sigg í hendurnar af áreynslu og striti og hafði elzt fyrir aldur fram, en eigi að síður elskaði hann hana. Börnin hans voru kyrkingsleg og báru þess ljós merki að þau höfðu verið alin upp við óheil-

næmt viðurværi, en í augum hans voru þau samt inndæl. Umfram alt annað þráði þessi ma*ur af heilum hug, að börnum sínum yrði kent. ,,Þó að heimnrinn stundum færi með mig í gönur,“ sagði hann, ,,vegna vankunnáttu minnar, þá vil eg að minnsta kosti, að þau verði aðnjótandi meiri fræðslu en eg og geti látið sér mín víti að varnaði verða.

Þó að mér hafi gengið ógreiðlega að verða aðnjótandi ávaxta unaðsemda þeirra og upplýsinga, sem í bókum eru fólgnar vil eg eigi að síður, að þeim verði gjört hægra fyrir um það.“

En Herraða ættin fór í háa rifrildi sín á meðal í tilefni af því, hvað lögmætt væri að kenna börnum þessa manns. Nokkrir af ættinni stóðu á því fastara en fótunum, að það (sem þeir tilnefndu) væri einkum og sér í lagi óhjákvæmilega nauðsynlegt yfir alla hluti fram; en aðrir af ættinni stóðu á því fastara en fótunum að það (sem þeir tilnefndu) væri einkum og sér í lagi nauðsynlegt yfir alla hluti fram. Og það slitnaði algjörlega upp úr á milli ættingja Herruðu ættarinnar, svo skiftust þeir í flokka, sömdu flugrit, héldu fundi, birtu stefnur og áttu í allskonar illdeilum; drógu hvern annan fyrir lög og dóm hins veraldlega réttar og fyrir lög og dóm hins andlega réttar; atyrtust, börðust með hnúfum og hnefum, flugust á og létu kné fylgja kviði af ósegjanlegri grimd. En á meðan sá maður þessi á hinum bráðfleigu tómstundum sínum heima hjá sér á kvöldin, börnin sín numin af tröllum í jötunheima fávizkunnar; hann sá dóttur sína gjörspillast og verða að ánauðugu kjagandi drægsli. Hann sá son sinn verða að þræli girnda sinna og ástríðna og dragast niður á lægsta stig glæpa og guðleysis. Hann sá ljósið, sem bjarmaði fyrir í augum ungbarna sinna hverfa og snúast svo grátlega til undirhyggju og ótrú-

mennsku, að hann hefði heldur kosið, að þau hefðu verið fábjánar.

,,Eg botna ekki hæti meira í þessu,“ sagði hann, ,,en eg efast um, að hér fari allt með feldu. Nei, svo sannarlega sem guð er í þessum þokuþrungna himni yfir höfði mér, synja eg fyrir, að mér sé hér um að kenna.“ Hann sefaðist von bráðara (því að geðshræringar hans áttu sér sjaldan langan aldur og að eðlisfari var hann ljúfmenni) svo fór hann að virða fyrir sér sunnudaga og leyfisdaga sína og fann hversu ömurlegir þeir voru og lúalegir, og hversu ofdrykkjan með allri sinni eyðileggingar-runu átti rætur sínar að rekja þangað. Því næst bar hann mál sitt undir Herruðu ættina og tók til orða: ,,Vér erum verkalýður, og eg hefi óljóst hugboð um, að verkalýð sé áskapað — og það af háleitari speki en yðar, eftir því sem mér á mjög takmarkaðan hátt, skilst það — að hafa þörf fyrir andlega svölun og saðningu. Lítið þér á hvað vér leiðumst út í þegar vér förum á mis við hana á hvíldardögum vorum. Fram nú! Gefið þér mér ósaknæma skemtun, sýnið þér mér eitthvað, bjargið þér mér!“

Nú varð harkið og háreystið í Herruðu ættinni öldungis ofboðslegt. Um leið og nokkrar raddir, sem naumast urðu heyrðar, komu með þá tillögu, að sýna honum undur veraldarinnnar, stærð sköpunarverksins, hinar feikilegu breytingar tímans, starfsvæð náttúrunnar og fegurð listanna — að lofa honum sem sé einhverntíma að skoða þetta, þegar hann væri viðlátinn að renna augunum yfir það — þá buldu við æðisleg óhljóð og ofboðslæti á meðal hinna Herruðu, þá heyrðust ræður fluttar af fossandi mælsku, þá var umlað og ávítað, þá rigndi uppnefnum og atyrðum, þá flágjölluðu þingbundin vafaspursmál og vandræða-svör, þar sem

,,eg þori ekki" stóð upp á móti ,,eg vil það," en manna-umingin stóð höggdofa og hvimaði í allar áttir. ,,Hefi eg komið öllum þessum ósköpum á stað," sagði hann, og hélt höndunum um eyrun, því hann hafði fengið hellu fyrir þau — ,,með tilmælum sem eg hélt að hefðu verið saklaus, og bygð væru á daglegri reynslu og þekkingu allra þeirra manna, sem þora að ganga með opnum augum? Eg skil ekki og enginn skilur mig. Hver mun endir hér á verða?"

Hann stóð bljúgur við vinnu sína, og var í sífellu að spyrja sig þessarar spurningar þegar honum bárust fréttir um, að drepsótt hefði gjört vart við sig hjá verkalýðnum og dræpi það umvörpum. Hann grenslaðist eftir þessu og komst þá fljótlega að raun um, að það var satt. Dautt og deyjandi fólk lá í einni kös í hinni loftillu og óþverralegu kofaþyrpingu þar sem hann hafði orðið að eyða æfidögum sínum. Hið rökkurdimma og fúla andrúmsloft eymdi alt af eitri.

Heilir jafnt sem vanheilir, ungir jafnt sem gamlir, feður jafnt sem mæður hrundu niður. Hvaða úrkosti hafði hann? Hann varð að vera þar sem hann var kominn og horfa upp á þá, sem honum stóðu næst hjarta, deyja.

Kristniboði, sem var mjög vingjarnlegur kom á fund hans og mæltist til að mega biðjast fyrir með honum til þess, að reyna að mýkja hjarta hans í myrkri sorgarinnar, en hann svaraði: ,,Ó, hvað stoðar það, kristniboði góður, að vitja mín, manns, sem dæmdur er til þess, að hafa aðsetur á þessum fúlu stöðvum dauðans? Þar sem hver einasta skynjun, sem guð hefir gefið mér til yndis og ánægju, verður mér til kvalar, þar sem hvert augnablik hinna töldu lífdaga minna eys nýrri vellankötlu yfir

dyngju þeirra hörmunga sem eg ligg marinn undir? En varpið þér heldur á mig í fyrsta sinni á æfi minni einu geislabroti af guði með því, að gefa mér vitund af lofti og ljósi; gefið þér mér hreint vatn; hjálpið þér mér til þess að vera þokkalegum; léttið þér þetta illa andrúmsloft og óbærilega líf, sem kvelur úr oss kjarkinn og gjörir oss að þessum harðúðugu og hirðulausu skepnum, sem þér of oftlega þykizt verða varir við vor á meðal; berið þér með viðkvæmni og vinarhug lík þeirra, sem deyja, út úr þessum kytrum, þar sem vér venjumst hinni ægilegu umbreytingu, dauðanum sjálfum, svo átakanlega, að vér jafnvel töpum meðvitundinni fyrir heilagleik hans, og þá vil eg, kennari góður — enginn veit betur en þér, hve sárfeginn — heyra yður minnast á hann, sem ætíð bar fyrir brjósti sér, þá, sem þjáðir voru og þunga hlaðnir, og tók uppá sig sorgir mannkynsins!"

Hann var enn að vinnu sinni aleinn og angurvær, þegar kennarinn kom og staðnæmdist hjá honum í svörtum klæðum. Hann hafði einnig um sárt að binda. Konan hans í blóma lífsins, yndislega, góða og unga konan hans var dáin og — einkabarnið hans líka.

„Kennari góður," sagði hann, „það er þungbært þetta — eg veit það — en reynið að hressa yður. Eg skyldi hugga yður ef eg gæti."

Kennarinn þakkaði honum hjartanlega, en sagði, „Ó, þú bágborni verkalýður! Allt þetta ólán stafar af yður. Hefðuð þér aðeins lifað heilnæmara og sómasamlegra lífi, þá hefði eg ekki nú verið syrgjandi ekkjumaður sviftur ástvinum mínum."

„Kennari góður," svaraði hann, og hristi höfuðið, „mér er loksins farið að skiljast, að flest ólán eigi rót sína að rekja til vor, svo sem eins og þetta. Að enginn geti

gjört svo lítið úr sér að staðnæmast við vorn auðvirðilega þröskuld, fyr en vér sameinumst hinni rembnu og kávísu kynslóð þarna yfir frá í því, að gjöra alt hið rétta. Vér getum ekki lifað heilnæmu og viðurkvæmilegu lífi nema þeir, sem tekist hafa á hendur að stýra oss, gjöri oss það mögulegt. Vér getum ekki fræðst nema þeir vilji fræða oss; vér getum ekki á skynsamlegan hátt skemt oss, nema þeir vilji skemta oss; vér getum ekki af sjálfsdáðum annað en haft einhverja falsguði, á meðan þeir fylla öll torg og almannasvæði með sínum eigin. Hið illa, sem stafar af rangri tilsögn, hið illa, sem stafar af djöfullegu skeytingarleysi, hið illa sem stafar af óeðlilegri kúgun og synjun sérhverrar göfgandi nautnar, mun allt streyma út frá oss, og ekkert af því mun líða undir lok með oss, það mun útbreiðast í hið óendanlega. Það gjörir það ætíð; það hefir ætíð gjört það — einmitt eins og þessi drepsótt. Eg hefi að lokum, að eg hygg, komizt að raun um það."

En kennarinn tók aftur til orða: „Ó, þú bágborni verkalýður! Hversu sjaldan er það, að vér heyrum minnst á yður, án þess að þér séuð viðriðnir einhver vandræði!"

„Kennari góður," svaraði hann, „eg er Nafnlaus, og mjög lítil líkindi til að mín verði getið (né fólk hirði mikið um að heyra mín getið) nema í sambandi við einhver vandræði. En aldrei verður það, að þau fái rót sína rakið til mín, og aldrei verður það, að þau hverfi með mér. Sem eg er lifandi maður, koma þau aðsteðjandi til mín og streyma út frá mér."

Það var svo mikil sanngirni í því, sem hann sagði, og Herraða ættin hafði pata af því, og auk þess hafði hin nýafstaðna eyðing slegið þvílíkri ofboðs skelfingu yfir hana, að hún fastréði að gjöra í sameiningu við hann, allt hið rétta — að minnsta kosti að því leyti sem það, frá

mannúðarlegu sjónarmiði skoðað, gæti samþýðst beina hindrun annarar drepsóttar.

Þegar hræðslunni létti af henni, sem hún fljótlega gjörði, tók hún aftur til að þrátta, eins og að undanförnu, og lét svo allt annað ógjört. Þess vegna gjörði drepsóttin vart við sig að nýju á lágu stöðvunum sem fyr — svo hélt hún áfram og uppávið eins og refsiglóð réttlátrar hefndar, og sópaði burtu afar-miklum fjölda af ófriðarseggjunum. En ekki var einn einasti maður á meðal þeirra, sem kannaðist nokkurn tíma við, að hann hefði orðið þess minnstu vitund var, að sér væri nokkurn skapaðan hlut hér um að kenna.

Þannig lifði Nafnlaus, og dó samkvæmt afgamalli venju; og þetta er í megindrættunum sagan af Nafnlaus.

Átti hann ekkert nafn, spyrjið þér. Ef til vill hét hann Legíón. Það skiftir litlu hvað hann hét, við skulum nefna hann Legíón.

Ef þér hafið einhverntíma verið staddur í belgisku þorpunum í grend við Waterloo vígvöllinn, munuð þér hafa séð þar í kirkju einni, lítilli og afskektri, minningarmark reist af dyggum og trúföstum samliðsbræðrum í öllum hertýgum, til minningar herfylkishöfðingja A, riddarahersi B, höfuðsmanni C, D og E, flokksfyrirliða F og G, merkisbera H, I og J, sjö undirforingja og eitt hundrað og þrjátíu óbreytta liðsmenn, sem féllu við góðan orðstír hinn minnistæða dag. Sagan af Nafnlaus er saga hinna óbreyttu liðsmanna heimsins. Þeir bera sinn hluta af þjáningum stríðsins, þeir eiga sinn þátt í sigrinum, þeir falla, þeir láta ekkert nafn eftir sig nema í fjöldanum. Lífsganga hins roggnasta á meðal vor endar í sama moldvarpinu sem þeirra.

Vér skulum nú minnast þeirra á þessu ári við jólablysin vor og gleyma þeim ekki þegar þau eru útbrunnin.

**(Jón Runólfsson þýddi.)**

# GYÐINGAR Í NORÐURÁLFU.

(Þýðing.)

—

GYÐINGAR hafa átt mikinn og merkilegan þátt í að gera Norðurálfu það sem hún er, þrátt fyrir það þó ferill þeirra þar væri sannur raunaferill í fleiri hundruð ár, —og sé það enda enn í sumum ríkjum Norðurálfu. Frá því fyrst þeir komu til Norðurálfu og til þessa dags, hafa þeir verið dreifðir sem þjóðflokkur, en þó alt af haldið hópinn, — einn hópinn hér og annan þar, tengdir með einu sameiginlegu, þrí-einu bræðra-bandi, ætt, sögu og trú. Þeir voru alls staðar álitnir óþarfir gestir, og var því alls staðar neitað um almenn, pólitísk þegnréttindi, — var enda hæpið, að lögin viðurkendu rétt þeirra til að lifa. Tilvera þeirra var eiginlega gustukagjöf ,,hinna kristnu,'' enda var það einkennismerki stimplað á Gyðinga hvarvetna. Þeir höfðu líka sem minst afskifti af kristnum nábúum sínum, bjuggu út af fyrir sig algjörlega og héldu fast við sín trúfræði, sem á engan hátt gátu samrímst trúfræðum hinna kristnu. Í gustukaskyni, sem sagt, var þeim lofað að lifa og í gustukaskyni var þeim þá einnig markaður bás, þ. e., þeim var veittur ákveðinn reitur í borgunum, sem þeir dvöldu í, til ábúðar. Þar, og hvergi

annars staðar, máttu þeir vera. Að auki voru þeir neyddir til að klæðast annarlegum búningi, til staðfestingar þeim almenna úrskurði, að þeir væru fyrirlitnir afkomendur útlifaðrar þjóðar. Sjálfir æsktu þeir þess eins, að mega vera i friði, en sú bón var þó ekki æfinlega veitt. Þeir voru hraktir úr einu landi í annað, úr einni borg í aðra, eignir þeirra voru teknar með ofbeldi og þeir sjálfir ekki ósjaldan lemstraðir. Í stuttu máli: Þeir voru ofsóttir á alla vegu. Þrátt fyrir allt þetta tókst þeim þó smátt og smátt að fullkomna það verk í Norðurálfu, sem stórmikinn þátt á í að hindra stríð og styrjöld og á hinn bóginn, á mestan þátt í auðsæld þjóðanna. Að Gyðingar hafi unnið þetta verk, er ekki nema lítiliega viðurkent enn, en sú viðurkenning er alt af að verða almennari, að Norðurálfa eigi Gyðingum að þakka sína miklu og sívaxandi alþjóðaverzlun. Gyðingar eru, sem kunnugt er, snillingar að græða á verzlun og vöruskiftum. Þess veg. a með fram hafa þeir fengið nafnið „okrarar," hjá öllum þjóðum, þó auðvitað sé, að þeir séu harðdrægir og sumir miður frómir í viðskiftum. En svo er þetta afsakandi. Það er eðlileg afleiðing af margra alda ofsókn og rangsleitni, sem þeir hafa mætt. Gyðingar voru upphaflega hneigðir til landbúnaðar og akuryrkju, en með falli Jerúsalemsborgar (árið 70 e. Kr.) og flótta þeirra úr landinu helga, byrjaði verzlunar-nám þeirra, og hefir haldið áfram síðan. Þegar til Norðurálfu kom, var þeim meinað að eignast land, og þeim var meinað að nema læknisfræði, lögfræði, stjórnfræði — í stuttu máli, þeim var bannað að menta sig eða fullkomna á einn eða annan veg. Þeim var leyft að hokra á þeim sérstaka reit í borgunum, sem þeim var úthlutaður, og þar með var búið. Hvað var til ráða fyrir þessa landflótta vesalinga? Þar sem lærðra manna staða

var þeim bönnuð og jarðyrkja bönnuð og að sjálfsögðu öll hluttaka í stjórnmálum, þá var ekki um marga vegu að tefla. Það sem næst var hendi og þægilegast viðfangs, var að kaupa og selja, — að kaupa fyrir sem lægst verð og að selja aftur með sem hæstu verði. Samhliða vöruverzluninni, verzluðu þeir og með peninga, þ. e., þeir lánuðu peninga gegn vöxtum, og á því græddu þeir brátt stórfé. Fyr á tímum var kristnum mönnum bannað „okur," eða peningalán gegn vöxtum, og voru Gyðingar því einir um þau viðskifti lengi fram eftir. Konungar og valdsmenn hlífðu ekki Gyðingum, og Gyðingar hlífðu þá ekki heldur lítilmögnunum, sem neyddust til að fá peninga til láns hjá þeim, þegar konungar eða yfirvöld þörfnuðust peninga, var sjálfsagt að grípa Gyðings-okrara og rýja hann sem næst að skyrtunni, sleppa honum svo og láta hann byrja á nýjan leik að rýja smælingjana. Af þessu athæfi fengu Gyðingar alment nafnið: „Lausafé konungs," að til þeirra var alt af tekið, þegar sjóður konungs var tómur.

Þetta var skóli Gyðinganna hjá „kristnu" þjóðunum, og það er sannast, að þeir voru fúsir að læra. Þeir lærðu furðu-fljótt öll brögð í verzlun og þeir höfðu líka betri hentugleika til að nema þá fræðigrein, en allir aðrir á þeim tíma, sérstaklega að því er snerti verzlun landa og þjóða milli. Dreifing þeirra meðal allra þjóða varð þeim í því efni ómetanlegt gagn. Að undanteknum örfáum lærðum mönnum, voru þeir einu mennirnir, sem áttu viðskiftavini í öllum löndum, og töluðu og rituðu sérstakt sameiginlegt tungumál. Í mörgum tilfellum, var einn bróðirinn í þessu landinu og annar í hinu, eða þá nánir tengdamenn og vinir. Þetta gerði upphaf alþjóðaverzlunar þeim mun aðgengilegri og greiðari. Og byrjunin var

þessi: ,,Ísak í London, t. d., keypti $100 virði af jarðyrkjuverkfærum og sendi Jakobi, bróður sínum eða vin, í Valensíu á Spáni. Hvernig borgaði þá Jakob þessar vörur? Hann keypti $100 virði af rúsínum og suðrænum aldinum og sendi Ísak til London. Þarna lét hvorugur einn eyri í peningum, en borgaði þó vörurnar fullu verði. Nú, þessi skínandi jarðyrkjutól hjá honum Jakob í Valensíu flugu út og þóttu fyrirtaks kjörkaup, þótt hann færði fram verðið um helming. Sama var að segja um aldinin hjá honum Ísak í London, að þau voru fyrirtaks ódýr, færð fram um helming. Afleiðingin var, að á stuttri stund höfðu þeir Ísak og Jakob grætt sína $100 hver, á $100 vöruforða.

Þetta var þeim Englendingum og Spánverjum ómögulegt að gjöra. Það skildi hvorugur annars tungumál, og þó svo hefði verið, hefði hvorugur þorað að senda hinum vöru, nema borgað væri fyrirfram. En Jakob talaði spánversku og Ísak ensku, en auk þess kunnu þeir eitt sameiginlegt mál — hebreskuna. Þetta eina dæmi sýnir því ljóslega, hvernig alþjóðaverzlunin hófst. Og það er líka auðskilið, hve fljótur og sí-vaxandi gróði safnaðist til Gyðinga í öllum löndum, sem eðlileg afleiðing af sívaxandi vöru-safni frá öllum löndum, sem þeir einir höfðu á boðstólum. Sölubúð hvers einasta Gyðings varð smám saman alþjóða-sýning í smáum stíl. Þar voru allir hlutir til sýnis og—fáanlegir fyrir ákveðið verð. Það er því auðsætt, að Gyðingar náðu brátt yfirhönd í allri verzlun.

Sí-vaxandi verzlun og auður og sí-vaxandi þörf á peningum til útláns kom þá og Gyðingum til að stofnsetja útlán og peninga-víxl, þ. e., gefa mönnum tækifæri að leggja peninga í útlána-sjóð, með því skylyrði, að draga mætti upphæðina út að þörfum. Þannig voru Gyðingar

höfundar þeirra stofnana, sem nú ganga undir nafninu ,,banki,'' og þeir eru einnig höfundar að bankaávísunum, með því að Gyðingur í þessu landinu gaf ritaða ávísan á sams konar sjóð í hinu landinu, svo peninga þyrfti ekki að senda landa eða ríkja á milli.

Ósjálfrátt náðu Gyðingar þannig haldi á öllum stórkostlegustu gróðafyrirtækjum, og þar sem þeir voru einir um öll þessi viðskifti í mörg hundruð ár, er ekki undarlegt þó þeir séu ríkir bæði sem sameiginlegur þjóðflokkur og einstaklingar. En svo gjörðu þeir meira en safna auð sjálfir. Þeir urðu orsökin til sí-vaxandi framleiðslu og hrundu þannig heiminum áfram á braut framfaranna. Jarðyrkjumaðurinn á Spáni gat ekki selt það sem nokkuru nam af afurð jarðar sinnar, þangað til Gyðingar komu. Það var meira en nóg af aldinum alls staðar á Spáni, fyrir fólkið sem þar bjó, og aðrir kaupendur buðust ekki. En svo komu Gyðingar og þeir tóku til að kaupa aldini og senda til bræðra og vina út um alla Norðurálfu, og fengu fyrir það vörur, sem Spánverjar höfðu ekki áður átt nokkurn kost á að fá. Eðlilega afleiðingin var sú, að þess meira sem Gyðingar keyptu af aldinum, þess meira máttu Spánverjar til með að rækta. Sama er að segja um alt, sem þeir keyptu, í hvaða landi sem var, að það þurfti þeim mun meira, sem þeir keyptu meira. Sú þörf óx með ári hverju og — framleiðslan með.

Hollendingar urðu fyrstir Norðurálfu-manna til að sjá og meta hagnaðinn, er stafaði af auðsæld og viðskiftaforsjálni Gyðinga, og veittu þeim svo fyrstir manna nokkur veruleg borgaraleg réttindi um lok sextándu aldar. Það var upphaf auðsældar Hollendinga, sem hvarvetna er viðbrugðið. Fimmtíu árum síðar veitti Oliver Cromwell Gyðingum leyfi til að flytja til Englands, eftir að þeir höfðu

verið útlægir þaðan um 370 ár. Þó var það ekki fyrr en um miðja nítjándu öld, að Gyðingar öðluðust borgaraleg réttindi á Englandi, Það var ekki fyrr en 1846 að numin voru úr gildi þau lög á Englandi, er heimtuðu að Gyðingar bæru sérstakan klæðnað, þó þau lög hins vegar væru dauður bókstafur, sem enginn hlýddi, frá því um miðja 17. öld,

Í Hollandi, í brezka ríkinu hvervetna, og í Bandaríkjunum hafa Gyðingar fullkomin þegnréttindi, en ekki annars staðar, nema að nafninu til. Þeirri endalausu baráttu og ofsóknum er það að kenna, eða þakka, samhliða þeirra eigin makalausu vanafestu, að svo mikið hefir að undanförnu verið talað um endurreisn Gyðingalands, og mikið og blómlegt Gyðingaveldi, sem eigi eftir að vaxa upp af þeirra eigin sögufrægu rústum við Jórdan. Þar í landinu helga endurreistu, vænta Gyðingar, meðal annars, að verði háð þau væntanlegu, voldugu dómþing, er úrskurði öll þau þrætumál þjóðanna, er til þessa hafa ekki orðið útkljáð nema með sverðum og byssukúlum á vígvelli.

Þrátt fyrir ofsóknir allar og jafnréttisbann hafa þó fjölmargir Gyðingar orðið nafnfrægir fræði- og listamenn, rithöfundar, málarar, o. s. frv. Meðal þeirra, sem nafnkendastir eru, má telja Mendelssohn og Meyerbeer, tónskáld og söngfræðinga, Heinrich Heine, söguskáldið nafnfræga, og Benjamin Disraeli, stjórnfræðinginn, sem þokaði sér áfram, stig fyrir stig, þangað til hann náði þeirri tignarstöðu, að verða stjórnarformaður Breta.

---

# KVENMAÐURINN OG KÖTTURINN.

Saga eftir Marcel Prévost.

---

Mr. Tribourdeaux var gamall vinur okkar, maður prýðilega vel að sér og skýrleiksmaður, en hvorttveggja er óvenjulegt um herlækna. ,,Jújú," mælti hann, ,,það yfirnáttúrlega er allt umhverfis oss, innilykur og gagntekur oss. Það er allstaðar. Ef vísindin leggja það í einelti, þá flýr það og verður ekki höndlað. Skynjanin er lík vorum fornu forfeðrum, sem ruddu sér akurland í skógarþykni: hvenær sem þeir komu út í jaðar rjóðursins, þá heyrðu þeir urrað og sáu glóra í tindrandi augu alt umhverfis. Eg þykist sjálfur hafa komið nærri takmörkum hins dularfulla þó nokkrum sinnum um dagana, og einkum og sér í lagi einu sinni."

Ein af ungu stúlkunum tók þá til orða og mælti:

,,Yður dauðlangar til að segja okkur sögu núna, doktor. Verið þér ekki að þessu, komið þér nú með hana."

Læknirinn hneygði sig.

,,Nei, mig langar alls ekki neitt til þess. Eg segi þá sögu eins sjaldan og mér er hægt, því að hún fær á þá sem heyra hana og tekur á sjálfan mig líka. Hvað um það, nú skuluð þið heyra."

„Árið 1863 settist eg að í Orleans sem ungur læknir. Sú borg er veglega húsuð, með því að ríkismenn og höfðingjar eiga þar heima mjög margir, og því er ervitt fyrir ógifta menn að fá þar hentugt húsnæði, en mig langaði til að hafa rúmt um mig og loftgott, og því settist eg að í stóru húsi utanborgar, nærri Saint-Euverte. Kaupmaður hafði reist það, er lét vefa tjöld og ábreiður í stórum stýl, hafði neðsta gólf fyrir búð og vörugeymslu en bjó á efra loftinu. Þegar hann fór á höfuðið, var húsið selt fyrir hálfvirði með öllu sem í var, með því að enginn fekst til að búa þar. Kaupandi ætlaði sér að græða á kaupunum, með því að bygðin var að færast í þá áttina, og nú ætla eg að svo sé komið, að borgin sé vaxin út fyrir þann stað. En þegar eg settist þar að, þá stóð húsgímaldið eitt sér á bersvæði, en innfrá því lá stræti, þar sem húsin stóðu strjált eins og gemlur í illa tenntum kjálka.

Eg leigði helminginn af fyrsta gólfi, fjögur herbergi. Svefnherbergi og skrifstofu hafði eg út að götunni, í öðru hinna hafði eg fatnað minn og farangur, en hitt stóð tómt. Þetta húsnæði var mér hentugt og þægilegt og enn er þess að geta, að meðfram allri húshliðinni voru veggsvalir, er eg hafði fyrir mig einan, eða helminginn af þeim, réttara sagt, því að járngrindur skiftu þeim í tvent (takið vel eftir þessu), en þó mátti vel klifrast yfir þær.

Það var í júlímánuði, þegar eg var búinn að vera þarna í tvo mánuði, að eg kom heim eitt kveld. Þá brá mér við að sjá ljós skína úr gluggum á sama lofti og eg bjó, en þar átti eg engra manna von. Ljósið var undarlegt, fölleitt en þó skært, og lýsti greinilega veggsvalirnar, götuna og flötina framundan.

Eg hugsaði með sjálfum mér: Jájá, eg er þá búinn að fá nágranna.

Mér var ekki meir en svo um þetta, því að eg var heldur upp með mér yfir því að hafa einka-ráð yfir bústaðnum. Eg fór upp í svefnherbergið, steig þaðan hljóðlega út á svalirnar, en þá var búið að slökkva ljósið. Eg sneri þá inn aftur, tók mér bók og las í eina tvo tíma. Eg þóttist heyra við og við eins og létt fótatak innan um húsið, en gaf því engar gætur, heldur lauk við bókina, háttaði og sofnaði skjótt.

Um miðnættið hrökk eg upp við það, að mér fannst einhver standa fyrir framan stokkinn. Eg settist upp, kveikti á kerti og leit þá hvar stóð á miðju gólfi afarstór köttur; hann setti upp kryppuna og glápti á mig heiðgulum glyrnunum. Hann var af bezta Angora-kyni, ágætlega fallega hærður, en liturinn var svo undarlega heiðgulur, að dýrið sýndist vera steypt úr gulli.

Hann gekk til mín hægt og hljóðlega og nuddaði sér mjúkt og varlega upp við fæturna á mér. Eg beygði mig og strauk honum, hann tók því malandi og stökk loks upp á hnén á mér. Eg sá þá, að þetta var læða, nývaxin, og sýndist vilja lofa mér að strjúka sér eins lengi og mig lysti. Loksins lét eg hana niður á gólf og reyndi til að fá hana til að fara út, en hún stökk út úr höndunum á mér og faldi sig einhversstaðar undir húsgögnunum, en þó stökk hún strax upp í rúmið, þegar eg var búinn að slökkva á kertinu. En eg var syfjaður og lét hana í friði. Um morgunin þegar eg vaknaði, var hún horfin.

Með sanni má það segja, að mannsheilinn er viðkvæmur, og verður auðveldlega þokað úr réttum skorðum. Áður en eg held lengra áfram, þá skuluð þið rifja upp fyrir ykkur það sem gerst hafði: ljós sást í herbergi, þar sem engin von var til þess, og hvarf snögglega; köttur, undarlega litur, kom fram og hvarf með dálitið kyn-

legu móti. Nú, það er enginn leyndardómur í þessu, eða hvað? Látum svo vera. Hugsið ykkur nú, að þessir sömu atburðir gerist dag eftir dag í heila viku, nákvæmlega með sama hætti í hvert sinn, og þá getið þið trúað mér til þess, að þeir eru nógu merkilegir til þess að kveikja óróa hjá manni sem býr einn á afskektum stað, álíka og þann sem eg mintist á í byrjun sögunnar, og altaf vaknar hjá manni, þegar hann nálgast hið dulda. Hyggja manns er svo gerð, að hún lætur sér ekki nægja annað en *causa sufficiens* eða samræmisins fullnaðar rök fyrir hverjum fyrirburði eða flokki fyrirburða. Hún krefst þess að atburðir nákvæmlega samskonar hafi samskonar orsakir, og fyllist óróablandinni undrun, ef hún getur ekki ráðið í orsökina eða það lögmál sem þeir eru sprottnir af.

Eg er ekki kjarklaus, en eg hef oft séð og gefið gætur hræðslu hjá öðrum, bæði þar sem hún sýnir sig einfaldlegast, hjá börnum, og hryllilegast, eins og hjá vitfirringum, og öllum stigum hennar þar í milli. Eg veit að hún sprettur ætíð og nærist af óvissu eða þekkingarleysi, þó að svo vilji oft verða, að hræðslan breytist í forvitni, þegar maður setur sér að athuga og ransaka upptök hennar.

Þess vegna tók eg það í mig, að grafa upp hið sanna í þessu. Eg spurði dyravörðinn spjörunum úr, en hann vissi ekki neitt um nágranna minn. Gömul kona kom á hverjum morgni að líta eftir þeim hluta hússins; eg lét dyravörðinn spyrja hana, en annaðhvort var, að hún var heyrnarlaus eða hún vildi ekki láta hann vita neitt, því að hann fekk ekki orð úr henni. Alt um það tókst mér að fá óræka skýringu á fyrsta atriðinu sem fyrir mig hafði borið — það er að segja því, að ljósið var slökt þegar eg kom heim. Eg tók eftir því, að ekki var annað fyrir

gluggunum en gisin tjöld, og með því að veggjasvalirnar lágu saman, þá vildi húsbúandi, hvort sem karl var eða kona, komast hjá óþægilegri forvitni frá minni hlið, og slökti því ljósið undir eins og fótatak mitt heyrðist. Eg hafði einfalt ráð til að komast að raun um að þessu var svo varið. Eg lét þjónustumann færa mér kaldan kveldskatt um hádegisbilið og hélt mér heima við eftir það. Þegar rökkva tók hélt eg mig út við glugga hjá mér, þangað til búið var að kveikja hinum megin, þá steig eg út á svalirnar og klifraðist yfir milligerðina hljóðlega. Eg var alveg ósmeikur, þó eg mætti búast við að eg stofnaði mér í lífshættu, annaðhvort af byltu eða af því að eg hitti karlmann fyrir. Eg náði glugganum svo, að ekki heyrðist minstu vitund til mín, hann var hálfopinn, og sá eg glöggt í gegn um tjöldin, þó að ekki væri hægt að sjá mig innanfrá fyrir þeim.

Eg sá inn í stórt herbergi, forkunnarvel búið, en þó fornfálega; ljós brann þar á hengilampa. Út við einn vegginn stóð hvílubekkur; þar lá stúlka, úng og fríð, að því er mér virtist. Hún hafði gullbjart hár, sem hrundi niður um herðar og vanga. Hún hélt á spegli, skoðaði sig og strauk sér, strauk handleggjunum yfir varirnar og hreyfði líkamann og limina kynlega mjúkt að kattasið, en hvenær sem hún hreyfði sig, þá glóði hárreifið í glitrandi bylgjum

Eg verð að játa, að mér varð dálítið órótt, meðan eg horfði á hana, einkanlega þegar þessi ungi kvenmaður hvesti á mig augun — kynleg augu, grængul og glóandi eins og eldslogi. Eg var viss um, að mig var ekki hægt að sjá, með því að eg var í skugga fyrir utan tjaldaðan glugga. En allt um það f a n n e g g l ö g g t a ð h ú n h o r f ð i á m i g. Meira að segja, hún hljóðaði

upp yfir sig, velti sér við og sneri andlitinu niður í hægindissvæfilinn.

Eg hleypti upp glugganum, stökk inn í stofuna að hvílubekknum og beygði mig yfir hana. Jafnframt tók eg að afsaka mig og ásaka, því að eg sá mikið eftir framferði mínu, kallaði sjálfan mig öllum nöfnum og bað hana fyrirgefningar fyrir þessa ósvinnu. Eg sagðist eiga það skilið að hún skipaði mér burt, en bað þess innilega, að mér væri ekki vísað út fyrirgefningarlaust. Eg fekk lengi vel ekkert svar við þessum bænum mínum, en á endanum sneri hún sér samt fram hægt og hægt og þá sá eg, að það vottaði lítið eitt fyrir brosi á andlitinu. Þegar hún leit mig, þá mælti hún fyrir munni sér þessi orð, en þau skildi eg ekki þá:

,,Það ert þú!" ,,Það ert þú!"

Eg vissi ekki í svipinn hverju svara skyldi og horfði á hana, og þá sló mig þessi hugsun: Hvar í heiminum hefi eg séð þennan svip áður, þetta augnatillit og tilburði? Þegar eg kom orði upp, þá mælti eg enn nokkur afsökunarorð fyrir forvitni mína og fékk stutt svar en ekki óvingjarnlegt; eftir það kvaddi eg og hvarf burt, sömu leið og eg kom. Þegar eg kom í herbergi mín, þá sat eg langa stund út við glugga í myrkrinu, heillaður af þessu fríða andliti, en samt kynlega órór.

Eg var hálfsmeikur við þennan kvenmann, þó fríð væri og viðfeldin, sem bjó svo nærri mér og ávarpaði mig þessum orðum: ,,það ert þú!" rétt eins og hún þekkti mig,—sem var svo fátöluð og forðaðist að svara spurningum mínum eiuarðlega. Hún sagði mér að vísu hvað hún héti — Linda — en það var líka alt og sumt. Augu hennar stóðu mér fyrir hugskotssjónum, gulgræn, og virtust stara á mig í gegn um myrkrið, og blossarnir

sem stóðu af hárinu á henni, eins og rafmagns gneistar, í hvert sinn sem hún strauk um það höndunum. Á endanum lagðist eg fyrir, en undireins og eg lagði höfuðið á koddann, þá fann eg eitthvað kvikt detta ofan á fæturna á mér. Kötturinn var kominn aftur. Eg reyndi að reka hana burt, en hún kom aftur og aftur, þangað til eg gafst upp við hana, og sofnaði með þennan kynlega laxmann hjá mér, eins og áður. En nú svaf eg illa við kynlega og vonda drauma.

Hafið þið reynt það nokkurn tíma, að einhver hugsun sezt að ykkur svo, að einhver einn heimskulegur þanki hefir tökin á heilanum — hugsun hálfvitfirringsleg, sem læsir sig um hugann, grípur sinnið hörkutökum, og vex og þróast, þó að bæði skynsemi og vilji sporni á móti. Þetta stríddi þungt á mig næstu daga eftir að þessi atburður gerðist. Ekki bar til tíðinda, annað en það, að kveldið eftir, þegar eg kom heim, þá sá eg að Linda stóð úti á svölunum, sínum megin við milligerðina. Við hjöluðum saman um stund í rökkurskímunni, en jafnskjótt og eg var háttaður, þá kom guli kötturinn og hreiðraði um sig í rúminu hjá mér og lá þar til morguns. Nú vissi eg hver átti hann, því að það sama kveld minntist eg á hann við Lindu, og þá sagði hún: ,,Ójá, kötturinn minn; alveg er hann eins og gerður úr gulli, finnst þér ekki?" Þó ekkert merkilegt kæmi fyrir, þá fylltist eg smám saman ugg og ótta, fyrst eins og geig, sem hvarflaði að stöku sinnum, síðan ofboði, sem sótti á mig þangað til eg gat ekki við mig ráðið, þannig að eg á endanum þóttist sjá það sem í rauninni var öldungis ómögulegt að sjá."

,,Nú, það er auðséð hvernig þetta fer," mælti unga stúlkan, sem talað hafði í byrjun sögunnar.

,,Linda og kötturinn voru ein og sama veran."

Tribordeaux brosti.

,,Eg hugsa að eg hafi ekki verið svo algerlega sannfærður um það, jafnvel eins og þá var komið,“ mælti hann; ,,en eg skal játa að þessi kjánalega hugsun sótti á mig oft og lengi þær löngu andvökustundir sem eg lifði þá, og stöfuðu frá því, að heilinn var of fús til starfa. Já, það var stundum að það sveif að mér, að þessar verur væru ekki tvær ólíkar, heldur ein og hin sama í tvennum ham — báðar með grænleit augu, mjúklegar hreyfingar, gullbjart hár og kynlegar í háttum. Eg sá Lindu oft og iðulega, en aldrei sá eg þær báðar í einu, þó eg reyndi til að koma að henni svo að hún varaðist ekki. Eg reyndi að hafa þetta af mér með íhugun og fortölum, leitaðist við að sannfæra sjálfan mig um að hér væri ekki neitt dult á seiði, og reyndi að gera gys að sjálfum mér fyrir að vera smeykur við kvenmann og meinlausan kött. Satt að segja, þá komst eg að þeirri niðurstöðu, að mér stæði ekki neinn verulegur geigur af stúlkunni, né kettinum, hvorri í sínu lagi, heldur af hugsuninni til hamskifta þeirra; af einhverju, sem var ekki líkamlegt, heldur sýnileg og holdi íklædd ímynd anda míns, mér stóð ótti af óskýrri hugsun, en sá ótti er í sannleika allra skæðastur.

Eg fór að verða veikur á sinninu. Eg hjalaði við Lindu frameftir kvöldunum með fullum trúnaði og margt annað en það sem lítið kunnugar persónur oftast tala um, og fekk bráðlega ástarþokka til hennar; en á daginn tók eg út kvalir líkt því sem stríða á þá sem vitfirring er að færast yfir. Smámsaman festist í mér ásetningur, sterk löngun til að ráða fram úr þessum sífelda, kveljandi efa; og því vænna sem mér þótti um Lindu, því ríkara rak þessi löngun á eftir mér. Eg ásetti mér að drepa köttinn.

Eitt kvöld, áður en eg fór út á svalir að hitta hana, þá tók eg krukku með glycerine og glas með hydrocyan sýru og glerstaut álíka og efnafræðingar brúka þegar þeir fara með eitur. Það kveld leyfði Linda mér að faðma sig í fyrsta sinn. Eg tók hana í fangið og strauk henni um hárið, en það snarkaði og spúði smágneistum þegar eg snerti það. Undireins og eg kom inn til mín, þá kom guli kötturinn fram að vanda. Eg kallaði á hana. Hún nuddaði sér upp við mig, setti upp kryppuna og sperti stýrið og malaði með mestu værð. Eg tók glerstautinn, dýfði honum í glycerinið og hélt honum að dýrinu, en hún rétti út tunguna, langa og rauða og sleikti hann. Þetta gerði eg nokkrum sinnum. En í fjórða sinnið stakk eg stökklinum í sýruna. Kötturinn sleikti hann sem áður, og grunaði ekkert. Í sama bili stirðnaði hún öll upp í krampa; hún fekk tvö eða þrjú flog; og sentist upp í loftið, síðan datt hún á gólfið og rak upp hljóð, — hljóð sem í sannleika var engu líkara en þegar maður veinar. Þarmeð dó hún!

Svitinn spratt út af enninu á mér, hendurnar skulfu, og eg fleygði mér niður hjá hræinu. Augun stóðu út úr tóftunum með þeim svip, sem eg fekk varla staðist. Tungan var svört og lafði út á milli tannanna; limirnir voru undarlega beygðir og kreptir. Eg tók á öllum þeim kjark sem eg hafði til, greip dýrið upp á löppunum og stökk út úr húsinu. Eg fór hart eftir götunum auðum og hljóðum, niður að Leirubökkum og fleigði skrokknum í fljótið. Eg reikaði um borgina til morguns og vissi varla hvar eg fór og ekki þorði eg að koma heim fyr en lýsa tók. Þegar eg tók í lásinn, þá fór hrylllngur um mig. Eg sárkveið fyrir því að hér mundi mig henda það sem segir frá í hinni frægu sögu eftir Poe, og dýrið sem

eg var nýbúinn að lóga, tæki á móti mér þegar eg kæmi inn. En svo varð þó ekki. Herbergin voru tóm. Eg datt ofan á rúmið í hálfgerðu yfirliði og svaf í fyrsta sinn án þeirrar meðvitundar að einhver væri að sveima kring um mig, þeim fasta svefni sem villidýrið sefur eða glæpamaður eftir framið morð, allan daginn til kvölds."

Við hlýddum sögunni steinþegjandi til þess hér var komið. Þá greip einhver fram í og segir:

,,Eg sé hvernig hún endar. Linda hefir horfið um leið og kötturinn."

,,Þér sjáið fullvel," svaraði Tribourdeaux, ,,að atburðina í sögu þessari ber undarlega saman, úr því að þér eruð svona nærgætinn um það hvernig þeir komu heim hver við annan. Já, Linda hvarf. Þeir fundu í herbergi hennar fatnað og línklæði og jafnvel náttbjúpinn sem hún ætlaði að vera í þá nótt, en ekkert fanst þar til leiðbeiningar um það hver hún hefði verið. Eigandi hússins hafði leigt herbergið ,,jómfrú Linda, söngmey." Hann kunni frá engu öðru að segja. Mér var stefnt fyrir lögregludómara. Eg hafði sést reika nálægt fljótsbakkanum með æðissvip, kveldið sem hún hvarf. Til allrar hamingju þekti dómarinn mig, og var þar að auki vitrari en fólk gerist. Eg sagði honum í einrúmi alla söguna eins og hún hafði gerst. Hann lét hætta ransókninni; samt held eg eg megi segja að fáir hafa komist nær því að vera dæmdir sekir um glæp, og sloppið þó."

Stund leið svo að enginn mælti orð, af þeim sem hlýddu sögunni. Loksins tók einn til orða, til að rjúfa þögnina og þann óhug sem slegið var á alla, og segir:

,,Verið þér nú ekki að þessum látalátum, doktor; segið eins og satt er, að þetta er allt tilbúningur, til þess gerður að halda vöku fyrir kvenþjóðinni í nótt."

Tribourdeaux hneygði sig með kuldasvip, hann var alvarlegur og dálítið fölur.

,,Það má hver skilja hana eins og gott þykir,“ mælti hann.

---

## Saga steinolíunnar í Pennsylvaníu.

Saga steinolíunnar í Pennsylvaníuríkinu er eins og skröksaga af gullfljóti.

Hún er töfrasaga auðæfa, sem sprottið hafa út af klettum og flóð út um hinn mentaða heim því nær um hálfa öld.

Hin sanna saga steinolíunnar óhreinsaðrar, eins og hún hefir ollið út úr klettunum er miklu áhrifaríkari, miklu yfirgengilegri, fyllri af óheyrðum atburðum heldur en nokkuð af því, sem að munnmælum hefir verið gjört um riddara og hispursfrúr í sögum bardaga og ástar. Kyngimáttur olíunnar hefir örvað blóð mannanna með fyrirheitum sínum um auð og allsnægtir, hún hefir knúið þá fram til atorku og áhættu; og hún hefir andað eins og vindur á sofandi glæður græðginnar, og blásið þær upp í glóandi bál glæfraspilunar. Olían hefir gjört menn auðuga og einskisverða á einum degi. Hún hefir komið stórríkum mönnum á vonarvöl, og gjört þurfamenn að stórhöfðingjum. Hún hefir sett menn á hásæti allsnægtanna og þeytt þeim niður á bersvæði skorts og örbirgðar.

Á olíu hafa menn grætt og tapað auðfjár með ótrúlegum sviftingum. Af hennar völdum hefir hlotizt konung-

legt stríð í ríki verzlunar og iðnaðar, stríð, sem ekki er enn til lykta leitt, stríð, þar sem hverflyndi hamingjunnar hefir verið eins og veðrið á Apríl-degi.

Vér hverfum 300 ár aftur í tímann að upphafi þessarar sögu, þegar hinar fimm kynkvíslir Iníána, sem bjuggu í vesturhluta New York ríkisins og Pennsylvaníu og kunnir voru af nafninu Iroquois. voru heimsóttar af frönskum landkannendum frá Canada. Nokkrir á meðal þeirra, sem héldu til við Seneca-vötnin og við upptökin að Alleghany nefndu sig ,,Nuduwawgah, eða ,,Fjallbúana.'' Þeir vissu um einhverskonar ,,Eldvatnalindir,'' — það er að segja um olíulindir — en stöðvum þessara linda héldu þeir leyndum um fjölda mörg ár. ,,Fjallbúarnir'' eða Seneca Indíánarnir, eins og þeir ávalt eru nefndir, héldu árlega stórhátíð um það bil, þegar tunglið var fult í Ágústmánuði og til þessa hátíðahalds buðu þeir nábúum sínum Kahquahs Indíánunum, því að það var mikil vinátta milli þessara flokka. Hátíð þessi var alþekt undir nafninu: Indíána korn-dans.

Öndverðlega á tímum við veizluhald þetta, skemti Seneca-flokkurinn Kahquahs-flokknum með ,,Eld-dansinum.'' Þeir söfnuðu mestu ógrynnum af svipum með mörgum leður ólum (cat o'-nine-tails) sem þeir höfðu gagnvætt með olíu við ,,Eldvatnalindirnar,'' og héldu á þeim logandi í hendi sér og þeyttu í kring um sig þegar þeir dönsuðu Indíána ,,Stegg-dansinn'' og ráku svo öðru hverju upp (Indíána) stríðsöskrið sitt eins og til hátíðabrigðis.

Að þessu þótti Kahquah-unum hin mesta skemmtun, og uppgötvuðu von bráðar hinar leyndu stöðvar ,,Eldvatnalindanna,'' og var þá með öllu út um leyndardóminn. Árið 1627 ritaði franskur kristniboði lýsingu af olíu-

lindum þessum og var hún prentuð í „Sögu Canada eftir Segard" árið 1632.

Hundrað árum síðar geta Frakkar þess, er bjuggu á meðal Seneca-flokksins í norðvestur hluta Pennsylvaníu, að kynkvísl þessara Indíána hafi notað olíu þessa við „Eld-dansinn í guðsdýrkunarskini. Ef til vill við ós þessarar lindar, sem nú er kölluð Olíulækur, á tanga einum, umgirtum hátignar fögrum hvammi, söfnuðust Indíánarnir saman. Hinn mikli höfðingi kynkvíslarinnar ávarpaði hópinn í eldheitum guðmóði, með hetjukvæðum, er hann hafði yfir, um hetjuskap og þrekvirki forfeðra þeirra. Yfirborð lækjarins var alþakið með þykkri olíufroðu. Logandi blysi var haldið að læknum, og á einu vetvangi stóð hann í björtu báli.

Þegar Indíánarnir sáu bálið, ráku þeir upp svo hátt fagnaðaróp, að hlíðarnar og dalirnir kváðu við. Um margra ára skeið hagnýttu Indíánarnir sér olíuna (sem almennt var kölluð Seneca olía). Þeir söfnuðu henni á þann hátt, að þeir vörpuðu ullar-ábreiðu á yflrborð lækjarins. Ullin drakk í sig olíuna, svo undu þeir ábreiðuna ofan í ílát úr steini eða tré; þannig náðu þeir tökum á hinum dýrmæta vökva. Þeir létu olíuna í smá-glös og létu farandprangara selja hana víðsvegar um land sem óbrigðult læknislyf við gigt, kverkabólgu, og mörgum öðrum kvillum.

En sú tíð nálgaðist, sem Indíánar skyldu hætta að káka við olíuna. Árið 1839 boraði Samuel Kier frá Pittsburg brunn á bakka Alleghany, þá er hann leitaði salts þar; eftir nokkura mánuði flóði olía út af brunninum. Í sama mund boraði nágranni hans Lewis Peterson annan salt-brunn, og var í mestu vandræðum fyrir sakir olíu sem í hann streymdi. Þegar hann hafði látið hinn dýra vökva

renna í fljótið um hríð, hugkvæmdist Peterson allt í einu, að ef til vildi mætti nota vökva þennan til að bera hann á vélar. Sú raun varð á, að olía þessi gafst ágætlega í því tilliti þegar henni var blandað saman við hrogn-lýsi(Sperm Oil) og var nú þannig fenginn miklu ódýrari vélaáburður en áður hafði verið kunnur.

Á hinn bóginn braut Kier heilann um, að nota hana til ljósmatar. Í því skyni bygði hann árið 1845 hreinsunarstöð; tók hann þá að dæla olíu upp úr „saltbrunni" sínum svo að hún hefði nóg að gjöra, en með því að enginn lampi var enn fenginn til þess að brenna henni í, varð olía sú, er hann lét dæla úr þessum eina brunni, svo mikil, að hún seldist ekki.

Nokkrum árum síðar fann Kier upp á því að láta hana í flöskur sem óbrigðult læknislyf gegn öllum þeim meinsemdum, sem mannlegur líkami er undirorpinn. Hann stofnsetti í Pittsburg verzlunarhús mikið þar sem hann seldi hana í pelaglösum sem sveipuð voru með auglýsingarmiða í eftirlíkingu af 400 dollara seðli. Það, sem flöskurnar höfðu að geyma var ekki eins aðlaðandi og bankaseðillinn sem utan um þær var vafinn.

Nýtt tímabil var óðum að nálgast.

Það höfðu verið gjörðar tilraunir af ýmsum efnafræðingum, eins og t. d. James Young í Skotlandi, í því augnamiði, að reyna að uppgötva olíu, sem hæf væri til ljósmatar. Hepnaðist þá Young að framleiða olíu af kolum, (sem ýmist er nefnd paraffin-oil, kerosene- eða coal-oil) — kol-olía. Fekk hann svo einkaleyfi til að selja kol-olíu sína á Bretlandi og í Bandaríkjum Vesturheims.

Um sumarið, þetta ár, 1854, var málaflutningsmaður, George H. Bissell frá New York á ferð, að heimsækja móður sína í Hannover, N. H., var honum þá sýnd stein-

olíu flaska frá olíu læk í Pennsylvaníu. Hann vissi að kol-olía var nú notuð til áburðar á vélar og jafnvel til ljósmatar. Kom honum þá eðlilega til hugar, hvort ekki mundi mega hreinsa steinolíuna og nota hana til hins sama. Var þá sendur maður til Olíulækjar á kostnað Bissells, að tilkynna þar, um mögulegar horfur á því, að auka viðgang og verzlun steinolíunnar. Þóttu þetta hinar beztu fréttir og var að vörmu spori myndað félag í New Haven og nefnt Steinolíufélag Pennsylvaníu. Hluthafar félagsins réðu í þjónustu sína Prófessor Benjamín Silliman frá Yale-háskóla, víðfrægan efnafræðing, til þess að sundurleysa og rannsaka steinolíuna frá Pennsylvaníu.

Rannsóknir próf. Sillimans stóðu yfir í fimm mánuði, og voru þær í mesta máta hinar ítarlegustu. Skýrði hann þá félaginu frá, að það ætti í eigu sinni eitt hið dýrmætasta efni, sem á mjög ódýran og einfaldan hátt mætti hreinsa og gjöra að mjög arðberandi verzlunar-vöru.

Óx félaginu svo hugur við skýrslu þessa, að það áræddi árið 1854 að kaupa 105 ekrur af landi á bökkum Olíulækjar, þar sem hinn fyrsti olíubrunnur í Ameríku var boraður.

Eftir ítarlegar og marg-endurteknar tilraunir, til þess að ná sem mestu af, og hagkvæmlegast olíunni úr jörðinni, var það fyrst fjórum árum síðar að Edwin L. Drake hepnaðist að grafa Artesiskan brunn og byrjaði hann þegar að dæla olíu úr honum, sem svaraði 25 tunnum á dag. Varð þrekvirki Drakes fljótlega hljóðbært og vakti miklar hreyfingar. Brá þá Bissell í New York við og keypti öll áhöld og olíu Pennsylvaníufélagsins og var sjálfur í fjóra daga við Olíulæk. Hækkuðu þá í verði landeignir allar nærliggjandi, sem báru þess merki að olía væri þar í jörðu fólginn. Bissell keypti bænda eignir

hverja á fætur annari meðfram Olíulæk og Alleghany fljóti, jafnvel þar sem engin merki sáust til steinolíu. Djúpskygni hans og dirfska höfðu hinar heillavænlegustu afleiðingar.

Þetta var upphaf hinnar stórhrikalegu steinolíu-verzlunar, sem tekið hefir öllu öðru fram í peningalegu verðmæti í sögu iðnaðs og verzlunar. Olía hefir ollið út úr jörðinni og streymt eins og gullfljót út um ríki heimsverzlunarinnar. Hún hefir veitt herskörum manna atvinnu. Hún hefir fylt fjárhirzlur þeirra, er hepnir voru í spilinu, eða nógu hugaðir, til þess að komast yfir olíu brunn. Hún hefir stráð þægindum, hita og ljósi út meðal mannkynsins, jafnvel til hinna fjarlægustu útkjálka heimsins.

(Þýðing).

---

## Leiðrétting.

Í almanakinu fyrir árið 1907 er mynd af Snorra Sturlusyni, sem sögð er að sé tekin eftir myndastyttu Einars Jónssonar frá Galtafelli. Nokkru seinna en almanakið kom út, vitnaðist að sú frásögn var eigi rétt og eru heiðraðir kaupendur almanaksins og aðrir beðnir afsökunar á þeirri missögn. Myndin er eftir norskan listamann, sem hét *Matthias Skeibrok* og lézt 1896 Á Norðurlöndum og víðar hefir mynd þessi af Snorra eftir Skeibrok þótt mesta listaverk og var hún fyrir nokkrum árum síðan keypt og gefin Óskari Svíakonungi og drottningu hans við silfurbrúðkaup þeirra. Útgef.

## Helztu viðburðir og mannalát meðal Íslendinga í Vesturheimi.

Í marzmánuði 1907 voru kosnir til þings Manitoba-fylkis: Sigtryggur Jónasson í Gimli kjördæmi og Thomas H. Johnson, lögfræðingur, í vestur-kjördæmi Winnipeg-borgar.

7. maí 1907 tók fullnaðarpróf í læknisfræði við *Benett* læknaskólann í Chicago, Hrefna Guðmundsdóttir (Mrs. Kurz), ættuð úr Húnavatnssýslu.

Í maímánuði 1907 tók burtfararpróf við *Gustavus Adolphus College* í St. Peter, Minn., Jóhanna Þórunn, dóttir Snorra Högnasonar og konu hans Vilborgar Jónatansdóttir í Minneota Minn.

Um vorið 1907 tók burtfararpóf við kennaradeild ríkisháskólans í Grand Forks, N.-Dakota, Halldóra, dóttir Hermanns kaupm. Hjálmarssonar og konu hans Magneu Guðjohnsen á Edinborg, N.-Dak.

Í maímánuði 1907 tóku burtfararpróf við College-deild Manitoba-háskólans:

Estella Maud Thomson, dótturdóttir Baldvins heit. Helgasonar frá Gröf á Vatnsnəsi í Húnav.s. [faðir hennar canadiskur].

Árni, sonur Stefáns Björnssonar og Kristínar Árnadóttur af Reykjaströnd við Skagafj., til heimilis í Selkirk.

Guttormur, sonur Guttorms Þorsteinssonar bónda í Nýja-Ísl., frá Krossavík í Vopnafirði.

Hjörtur, sonur Jónasar Leó, af Skagaströnd, til heimilis í Selkirk.

---

15. júní 1907. Sigurður Júl. Jóhannesson tók burtfararpróf í læknisfræði við *National Medical University* í Chicago.

---

24. nóv. 1907. Vígð kirkja á Baldur, Manitoba, af forseta Hins ev. lút. kirkjufél. Ísl. í Vesturheimi, síra Jóni Bjarnasyni. Var sú kirkja reist af nýmynduðum söfnuði þar, sem nefnir sig Immanúel-söfnuður, og prestur þess safnaðar er síra Friðrik Hallgrímsson.

---

Fyrripart ársins 1907 voru fullsmíðaðar tvær stórbyggingar (Blocks) úr steini er Íslendingar hafa látið reisa í Winnipeg: Arinbjörn Sigurgeirsson Bardal, útfararstjóri, hans bygging stendur á Nena stræti milli William- og Bannatyne stræta og er að stærð 60x100 fet, þrílyft, og kostaði um fimtíu þúsund dollara.—Jón J. Vopni, kaupm., hans bygging stendur á horninu á Ellice- og Langside strætum og er að stærð 83x89 fet og 6 þuml., þrílyft, og kostaði um sjötíu og fimm þúsundir dollara.

---

# MANNALÁT.

---

17. sept. 1906. Magnús Eirikson við Marshland pósthús í Manitoba, [frá Dalakjálka í Suður-Múlasýslu], 77 ára.

5. nóv. 1906. Albert Gíslason í Milwaukee, Wis., (úr Dalasýslu, flutti til Ameríku 1874), 71 árs.

14. nóv. 1906. Ingibjörg Björnsdóttir, eiginkona Sveins Árnasonar, til heimilis í Gardar-bygð í N. Dak., (úr Suður-Múlasýslu), yfir áttrætt.

21. nóv. 1906. Sigríður Þorsteinsdóttir, kona Elíasar Magnússonar á Melstað í Mikley á Winnipeg-vatni, (ættuð úr Snæfellsnessýslu), 71 árs.

5. des. 1906. Þórunn Jónsdóttir, móðir Stefáns Kristjanssonar, bónda í Argyle-bygð. 73 ára.

15. des. 1906. Síra Stefán Sigfússon í Winnipeg [síðast prestur á Hofi í Álftafirði á Íslandi], um sextugt.

16. des. 1906. Sigurður Björnsson við Quill Lake, Sask., (frá Marbæli í Óslandshlíð í Skagaf.), 79 ára.

25. des. Þorgerður Bjarnadóttir, ekkja (frá Staffelli í N.-Múlasýslu), hjá sonum sínum Bjarna Péturssyni og Sigurði, bændum í N. Dakota, 96 ára.

Í des. 1906. Jón Erlendsson *Eldon* í Blaine, Wash. [frá Garði í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu.

Í des. 1906. Sigurbjörg Bjarnadóttir, kona Magnúsar Davíðssonar, bónda í Gardar-bygð í N. Dakota, rúmlega þrítug.

Í des. 1906. Vilhjálmur Jónsson í Blaine, Wash., [ættaður úr Eyjafirði], 56 ára.

JANÚAR 1907:

1. Anna Sveinsdóttir, ekkja, til heimilis hjá tengdasyni sínum Gesti Jóhannssyni í Poplar Park, Man., (bjó lengst af á Mýrum við Hrútafjörð), á 102. aldursári.

3. Ingveldur Jóhannesdóttir, kona Antoníusar Eiríks-

sonar að Fagraskógi í Fljótsbygð í N.-Íslandi, (ættuð úr Loðmundarfirði í N.-Múlasýslu), 81 árs.

12. Guðrún Stefánsdóttir, kona Odds Jónssonar bónda við Lundar-pósthús í Manitoba (úr Fljótsdalshéraði), 38 ára.

15. Benedikt Bjarnason, til heimilis hjá Gísla Eiríkssyni, bónda við Markerville, Alta., (fæddur á Staffelli i Fellum í N.-Múlasýslu), 75 ára.

23. Markús Finnbogi, sonur Björns O. Björnssonar og konu hans Jensínu, í Mikley á Winnipeg-vatni.

25. Hjörtur Björnsson, sonur Björns Jónssonar og Guðnýju Ólafsdóttir í Víðirnes-bygð í N.-Íslandi (úr Þistilfirði), 26 ára.

26. Anton Tómas Kristjánsson, hjá fósturforeldrum sínum Guðlaugi Kristjánssyni og Önnu konu hans í Gardar-bygð í N. Dakota, (úr Eyjafirði), 30 ára.

FEBRÚAR 1907:

2. Kristín Helgadóttir (Tómassonar), kona Vilhjálms Sigurgeirssonar í Mikley á Winnipeg-vatni.

4. Sigurður Guðmundsson, til heimilis hjá tengdasyni sínum Jóni Snædal, bónda í Vesturheims-bygð í Minnesota, (ættaður frá Ekkjufelli í Fellum í Fljótsdalshéraði), 99 ára.

6. Eggert Edward, sonur hjónanna Guðvalds Eggertssonar og Ragnheiðar Jónsdóttur í Winnipeg, 15 ára.

12. Magnús Sölvason [Olson] á Point Roberts, Wash., [ættaður úr Skagafirði], 57 ára.

15. Helga Árnadóttir, ekkja Sveins beykis Þórðarsonar í Utah (úr Vestmanneyjum), 75 ára.

19. Einar, sonur Jóns Hildibrandssonar og konu hans á Kollsstöðum í Nýja-Íslandi, 17 ára.

19. Jón Benediktsson, að heimíli sonar síns Gunnars, bónda við Marshland, Man., (frá Hólum í Hjaltadal), 68 ára.

20\. Jón Eymundsson, bóndi við Pembina, N. Dakota, (af Langanesi), 56 ára.

27\. Jóhanna, kona Stefáns Kristjánssonar í Winnipeg, dóttir Pálma Hjálmarssonar bónda að Hallson, N.D., 25 ára.

Sigfús Jónsson á heimili Sigurjóns sonar síns á Mountain, N. Dak., (frá Syðra-Krossanesi í Eyjafirði, kom frá Íslandi 1876), 76 ára.

MARZ 1907:

13\. Flora, dóttir Einars Schevings bónda í N. Dakota.

16\. Albert, sonur Árna Jónssonar og konu hans við White Sand River í Saskatchewan, 15 ára,

24\. Mrs. Jenny Shields, dóttir Jóns Guðmundssonar í Big Grass-bygð í Manitoba.

25\. Sigfús Gunnarsson, fóstursonur Stefáns heit. Gunnarssonar og Önnu konu hans, í Winnipeg, 19 ára.

25\. Sigfríður Tómasdóttir, kona Vilhjálms Ásbjarnarsonar bónda í Mikley á Winnipeg-vatni, (frá Hrollaugsstöðum á Langanesi), 60 ára.

28\. Anna Tómasdóttir, kona Sigurðar Hermannssonar við Winnipeg-bæ, á sextugsaldri.

Jósep, sonur Magnúsar Jósepssonar og Steinunnar Ólafsdóttir í Blaine, Wash., (úr Dalasýslu), 25 ára.

APRÍL 1907:

6\. Sturlaugur Bjarnason, hjá tengdasyni sínum Jóni Gíslasyni við Mountain, N. Dakota, (frá Lækjarskógi í Laxárdal í Dalasýslu).

7\. Ólafur Mikael Jónsson, hjá syni sínum Tryggva, bónda við Skálholt-pósthús í Manitoba, (frá Kúðá í Þistilfirði, en ættaðnr úr Ejafirði.)

18 Guðrún Einarsdóttir, kona Þórarins Kristjánssonar bónda á Framnesi í Nýja-Íslandi, (ættuð úr Austur-Skaftafellssýslu), 34 ára.

18. Einar Þorkelsson, bóndi við Íslendingafljót, [ættaður frá Hóli í Mjóafirði], 57 ára.
24. Jón Tryggvi, sonur Helga heit. Þorsteinssonar og konu hans Hildar, í Argyle-bygð, 24 ára.
Stefán Jónsson (Ásman) við Minneota, Minn., (frá Ásum í Húnavatnssýslu), 76 ára.
Sigríður, dóttir Jóhanns Sigurðssonar bónda í N. Dak., gift sænskum manni (Hoban), um þrítugt.

MAÍ 1907:

12. Margrét Kristjánsdóttir, kona Þórarins J. Normann, við Churchbridge, Sask. (frá Steðja á Þelamörk í Eyjafirði).
19. Sæunn Sigurðardóttir, kona Jónasar Leo í Selkirk, Man. (úr Húnavatnssýslu), öldruð kona.
20. Þorsteinn Þorkelsson (Kelly) í Selkirk, Man.
22. Jóhanna Ingjaldsdóttir, Jónssonar prests Reykjalin, hjá syni sínum Ágúst á Gimli, ekkja Gunnars Pálssonar, (úr Þingeyjarsýslu), 78 ára.
Una Margrét, dóttir Péturs Hillman, bónda við Akrapósthús í N. Dakota.

JÚNÍ 1907:

1. Jón, sonur Sigurbjarnar heit. Jónssonar, (frá Stóru-Giljá í Húnavatnssýslu).
2. Jón Þorvaldsson við Stony Mountain, Man., (úr Mýrasýslu), 37 ára.
3. Einar Kristjánsson bóndi við Narrows, Man., (úr Borgarfjarðarsýslu), 69 ára.
7. Þórdís Halldórsdóttir, kona Jóns Jónssonar, bónda að Framnesi í Árdals-bygð í Nýja-Íslandi, (úr Hornafirði í Austur-Skaftafellssýslu), 64 ára gömul.
7. Jóhanna Þorbergsdóttir í Winnipeg, ekkja Jóhanns heit Jóhannssonar, (frá Sæunnarstöðum í Húnaþingi, flutti hingað 1876), 65 ára.

14. Úlfhildur Sigurðardóttir í Saltcoats, Sask., ekkja Eyjólfs Narfasonar, (bjuggu á Hverakoti í Árnessýslu), 72 ára.
17. Árni Snædal, bóndi í Gardar-bygð í N. Dakota, ungur maður.
22. Lúðvíg G. Erlendsson til heimilis við Manitoba-vatn, 26 ára.
24. Sigrún Sigmundsdóttir, kona Jóns Nordals, bónda í Geysis-bygð í Nýja-Íslandi.

Jónína Rósa Edvarðsdóttir, kona Gunnars Holm vestur á Kyrrahafsströnd, (frá Koreksstöðum í N.-Múlasýslu.)

Jón Jónsson í Winnipeg, (frá Böðvarsdal í Vopnafirði), 73 ára.

Guðm. Guðmundsson Snæfeld, í St. Boniface, Man., foreldrar hans til heimilis í Mikley, (ættaður úr Snæfellsnessýslu), 24 ára,

JULI 1907:

5. Svafa, dóttir Friðriks Friðrikssonar bónda í Þingvallanýlendu, Sask. (úr Eyjafirði), 23 ára.
17. Helgi Benediktsson á Gunnarsstöðum í Nýja-Íslandi, (frá Barnafelli í Þingeyjarsýslu), 80 ára.
18. Björn, sonur hjónanna Gunnlaugs Sölvasonar og Guðríðar konu hans í Selkirk, Man., (faðir hans ættaður úr Skagafirði), 17 ára.
18. Kristín Pétursdóttir (Jónssonar, fyrrum bónda á Sveinatungu í Norðurárdal), hjá tengdasyni sínum Magnúsi Kaprasíussyni við Manitoba-vatn, 87 ára.
20. Jónas Gíslason í Árdals-bygð í Nýja-Íslandi, (úr Skagafirði), 68 ára.

ÁGUST 1907:

1. Þórður Þórðarson bóndi í Cypress-bygð í Manitoba [frá Blikalóni á Melrakkasíéttu], 51 árs.
9. Guðlaug Einarsdóttir, kona Jóns Hildibrandssonar við Hnausa-pósthús í Mýja-Íslandi, (ættuð úr Fellum í Norður-Múlasýslu), 56 ára.

9. Kristín Friðriksdóttir (Jónssonar frá Ytri-Bakka við Eyjafjörð), til heimilis á Hallson, N. Dakota.

9. Axel, sonur hjónanna Jónasar Dalmanns og Rósu konu hans í Winnipeg, 17 ára.

12. Sigurður Andrésson í Brandon, Man., (bróðir Jóns A. Hjaltalíns, skólastjóra á Akureyri), 66 ára.

16. Einar Ólafsson, ritstjóri á Gimli, (frá Firði í Mjóafirði í N.-Múlasýslu), 42 ára.

29. Friðrik Þorsteinsson í Selkirk, Man., (frá Höfðahúsum í Fáskrúðsfirði), 45 ára.

30. Páll Ásmundsson bóndi við Marshall, Minn.

31. Margrét Benediktsdóttir í Winnipeg, ekkja Elíasar Ólafssonar (af Álftanesi), 52 ára.

31. Grímur Einarsson Scheving, bóndi í Gardar-bygð í N. Dakota, (frá Klausturseli á Jökuldal), 77 ára.

SEPTEMBER 1907:

2. Páll Sigurðsson (Ólafssonar, beykis í Eskifjarðarkaupstað í Suður-Múlasýslu), til heimilis í Winnipeg, 62 ára.

3. Eyjólfur Guðmundsson í Víðirnesdygð í Nýja-Íslandi, 76 ára.

4. Halldóra, dóttir Halldórs Halldórssonar, Lundarpósthúsi, Man., (af Ísafirði), 22 ára.

6. Sveinn Þorleifur Eiríksson í Mikley á Winnipegvatni, 40 ára.

7. Þórður, sonnr hjónanna Sigurðar Sigurðssonar og konu hans Ragnheiðar Þ. Þórðardóttir, (frá Rauðamel í Hnappadalssýslu), 24 ára.

7. Magdalena Tómasdóttir (úr Miðfirði í Húnavatnss.)

9. Kristján Jónsson í Winnipeg, (frá Geitareyjum á Breiðafirði), 74 ára.

12. Guðríður Salómonsdóttir, (frá Rafnkelsstöðum í Hraunahreppi í Mýrasýslu), rúmlega sextug.

17. Signý Jónsdóttir, öldruð ekkja, hjá dóttur sinni konu

Hermanns Jósepssonar í Minneota, Minn.,. (úr Þingeyjarsýslu.)
20. Gísli Jónsson í Winnipeg, (frá Vestmannaeyjum.)
28. Þorgrímur Hrólfsson Mattiassonar, (frá Draflastöðum í Þingeyjarsýslu.)

OKTOBER 1907.

1. Guðlaug Guðmundsdóttir, (frá Hlíð í Gnúpverjahreppi í Árnessýslu), 85 ára.
4. Halldór Brynjólfsson, bóndi á Birkinesi við Gimli, (af Vatnsnesi í Húnavatnssýslu), 52 ára.
10. Einar Eymundsson að heimili tengdasonar síns Matúsalems Jónssonar í Árdals-bygð í Nýja-Íslandi (frá Fagranesi á Langanesi), 85 ára.
13. Halldór Kristjánsson Vopnfjörð til heimilis í Vesturheims.bpgð í Minnesota, 21 árs.
22. Margrét Stefánsdóttir (Björnssonar frá Dagverðarnesi á Skarðströnd), kona Björns Jósepssonar (Skaftasonar frá Hnausum í Húnavatnssýslu), 60 ára, til heimilis í Winnipeg.
24. Eyjólfur Magnússon á Unalandi við Íslendingafljót, (frá Unaósi í Hjaltastaðaþinghá, flutti hingað vestur 1876), 85 ára.

Jón Mýrdal, bóndi við Otto-pósthús í Manitoba.

NÓVEMBER 1907:

1. Katrín, dóttir Guðjóns Ingimundarsonar í Selkirk, Man. [úr Vestmannaeyjum].
3. Guðlaug Sveinsdóttir á Þingvöllum í Geysis-bygð í Nýja-Íslandi, systir Benedikts heit. sýslumanns Sveinssonar og þeirra systkina. Á áttræðisaldri.

DESEMBER 1907:

14. Stefanía Dagbjört, dóttir Jóseps heit. Stefánssonar og Jóhönnu Bjarnadóttir, til heimilis í Winnipeg, (úr Dalasýslu), 37 ára.

## SMÁVEGIS.

Stærstí stjörnukíkir, sem til er í heiminum, finst í Bandaríkjunum, í Williams Bay, gefinn þangað af nafnkendum auðmanni frá Chicago. Honum er svo hagað, að stjörnuljósið fellur á spegil, áfastan við kíkirinn, og síðan í sjálfa sjónpípuna. Sá spegill er 60 þuml. að þvermáli, glerið 8 þuml. á þykt og vegur rúma smálest, eða yfir 2000 pund. Menn héldu, að ekki mundi auðnast, að hafa not af stærri stjörnukíki en þessi er, ýmsra orsaka vegna, sem oflangt yrði að telja hér. En nú er þó annar í smíðum ennþá stærri, handa stjörnuturni í Californíu, sem er kendur við Carnegie. Spegilglerið í þá sjónpípu á að vera 100 þuml. að þvermáli, 13 þuml. þykt og vega hálft fimta ton. Það er talið yfirtak vandasamt, að steypa þetta feiknagler, gallalaust, svo og að slípa það og þá ekki sízt að setja það upp og er búizt við að til þess muni ganga 4 eða 5 ár.

Bólusetning við elli. Þó að "bólusetning" við mjög mörgum sjúkdómum, bæði á mönnum og málleysingjum, hafi fleygt fram ótrúlega með hverju ári í seinni tíð, þá eru vísindin ekki komin svo langt enn, að ellin hafi sigruð verið á þann hátt. En þó hefir mönnum meir en komið það til hugar, og telja það jafnvel ekki ólíklegt, eftir nýlegum tilraunum þar að lútandi. Dr. Weichardt heitir þýzkur læknir, sem lét nokkur marsvín stökkva þangað til þau duttu niður dauð af þreytu. Þvínæst tók hann vökva úr vöðvum þeirra og sprautaði inn undir skinnið á nokkrum heilbrigðum marsvínum, en þeim brá svo við, að þau fóru að skjögra eins og aðfram komin af þreytu, og dóu eftir einn eða tvo sólarhringa. Nú er það einkenni á hverju sjúkdómseitri, sem hægt er að bólusetja með, að það framkallar móteitur í líkamanum. Ef nú svo skyldi vera, sem einn frægur vísindamaður, Metsnikoff, heldur fram, að þreyta orsakist af eitri sem framleiðist í líkamanum við áreynzluna, og ellihrumleiki sé ekki annað en samsafn af eiturverkunum þreytunnar eftir áreynzlu ævinnar, — þá þykir sem þar af megi draga þá ályktun, að hugsanleg sé bólusetning við þreytu og jafnvel við sjálfri ellinni.

# INNIHALD ALMAN. 1908.

Tímatalið — Myrkvar — Árstíðirnar — Tunglið — Um tímatalið — Páskatímabilið — Pláneturnar — Páskadagar — Sóltími — Til minnis um Ísland — Ártöl nokkurra merkisviðburða — Veðurspár fyrir árið 1908 — Stærð úthafanna — Lengstur dagur — Þegar klukkan er 12 .................... bls. 1—8

Almanaksmánuðirnir ............... ,, 9—20

Friðjón Friðriksson, með mynd. Eftir síra Friðrik J. Bergmann .............. ,, 21—40

Innlendur vísir af útlendri rót. Þýtt af K.S. ,, 41—55

Sagan af Nafnlaus. Eftir Charles Dickens. Þýdd af Jóni Runólfssyni .......... ,, 56—64

Gyðingar í Norðurálfu. Þýðing......... ,, 65—76

Kvenmuðurinn og kötturinn. Saga eftir Marcel Prévost..................... ,, 71—81

Saga steinolíunnar í Pennsylvaníu. Þýtt ,, 81—86

Leiðrétting.......................... ,, 86

Helztu viðburðir og mannalát meðal Ísl. í Vesturheimi.................... ,, 87—95

Smávegis ............................ ,, 96